ÖREIGAR ALLRA LANDA SAMEINIST!

LIFI MARXISMINN-LENÍNISMINN-HUGSUN MAÓS TSE TUNGS!

# Stéttabaráttan

MÁLGAGN KOMMÚNISTASAMTAKANNA MARXISTA-LENÍNISTA

8. tbl. 4. árg 1975

Verð kr. 70



## Hækkun lausasöluverðs

Ritstjórn hefur ákveðið að hækka verð blaðsins í lausasölu. Síðast hækkuðum við blaðið (úr 40kr í 50) í júní 1974. En einsog allir vita þá hafa orðið geysilegar verðhækkanir á öllum hlutum síðan þá. Við höfum beðið með að hækka lausasöluverðið þar til í síðustu lög. En lengur verður ekki beðið, nú kostar blaðið 70 krónur.

STÉTTABARÁTTAN byggir fjárhag sinn á því sem lesendur láta af hendi rakna. Við höfum ekki opinbera sjóði til að ausa úr, og við byggjum ekki reksturinn á auglýsingum. Með þessu móti er blaðið eingöngu háð lesendunum. Og það er þannig sem við viljum hafa það. Engir hagsmunir, annarra en íslensks verkalýðs, eiga að hafa áhrif á málflutning blaðsins. Í ljós þessa er ritstjórn sannfærð um að hækkun lausasöluverðsins mæti skilningi hjá lesendum, og að þeim haldi áfram að fjölga eins og að undanförnu.

# Ríkisstjórnin svíkur loforðin

# ASÍ-forystan hefst ekkert að

Það fer ekki milli mála að samningar verkalýðsfélaganna fyrir rúmum þrem mánuðum síðan voru staðfesting ASÍ-forystunnar á kjaraskerðingaráformum auðherranna og ríkisstjórnarinnar.
Talið er að þessir samningar hafi falið í sér 11% launahækkun hjá verkafólki að jafnaði, en samkvæmt útreikningum Hagstofunnar er þessi launahækkun nær uppurin.
Loforð ríkisstjórnarinnar frá 26. mars um skattalækkun hafa einnig reynst einskis verð.
Til að tryggja að samið yrði, lofaði ríkisstjórnin að búvöruverðshækkunin sem koma átti í júní kæmi ekki til framkvæmda, en yrði greidd niður. Eins og önnur loforð var þetta einnig svikið og niðurgreiðslum frestað á meðan verið var að hækka búvörur.
Í júlí síðastliðnum kórónaði ríkisstjórnin svo kjaraskerðingarárásir sínar með 12% vörugjaldi, sem kemur á 40% af innflutningnum.

Það dylst fáum eftir síðustu kjarasamninga, að ASÍ-forystan er ekkert annað en lágsigld þerna atvinnurekenda og ríkisstjórnarinnar. Það að síðustu samningar forystunnar voru ekkert annað en þjónusta við atvinnurekendur verður æ fleirum ljóst nú þegar nokkuð er um liðið frá samningunum. Það atriði sem ASÍ taldi vera eitt mikilvægasta atriðið við samningana, skattalækkunin, hefur nú komið í ljós sem tómt fals. Eins og öllum er kunngt, ákvarðast tekjuskattur og útsvar í ár af tekjum ársins í fyrra, en tekur ekki tillit til greiðslugetunnar á árinu sem teknanna er aflað. Þannig varð 51% hækkun framtaldra tekna milli áranna 1973 og 1974 væntanlega til að hækka skatta um 51% 1975 fram yfir það sem þeir voru 1974. Tekjuaukningin milli áranna 1974 og 1975 mun ekki ná þessari skattaaukningu, en áætlað er að hún verði aðeins um 30%. Afleiðingarnar eru því augljósar, nú á að greiða 51% hærri skatta með 30% hærri tekjum. Niðurstaðan er því stóraukin skattbyrði, sem ríkisstjórnin lofaði að leiðrétta. Gert var ráð fyrir á fjárlögum að skattar lækkuðu um 700 m.kr., en samtímis voru útsvör hækkuð um 600 m.kr. og um 300 m.kr. með því að lækka útsvarsfrádráttinn ekki í samræmi við skattvísitölu. Þannig var loforðið um lækkun skatta svikið en almenningur verður nú að borga hærri skatta með minni heildartekjum. Niðurstaðan er því raunverulega sú, að skattar hafa hækkað stórlega fram yfir launahækkanir. Það skyldi því engan undra þó að skattar hafi hækkað um 70% eins og varð í Suðurlandskjördæmi. Sannleikurinn um skattalækkanirnar var nefnilega sá, að þær voru hreinn tilbúningur af hendi ríkisstjórnarinnar og til þess naut hún stuðnings ASÍ-forystunnar.

### Hverjir svíkja undan skatti?

Hverjir skyldu það nú vera sem verða látnir borga þessar auknu skattbyrðar. Ef við förum í skattskrána þá sjáum við að skattar verkafólks hafa óhjákvæmilega hækkað. Þannig hefur heildarskattheimta ríkis og sveitarfélaga hækkað úr 32,5% af þjóðarframleiðslunni í fyrra í 34,5% af henni í ár (þrátt fyrir minni þjóðarframleiðslu og "skattalækkun" ríkisstjórnarinnar). Þessi aukna skattbyrði kemur til með að leggjast fyrst og fremst á herðar launafólks eins og allt að 70% tekjuskattshækkun á Suðurlandi sýnir meðal annars. Eins og áður er það verkalýðurinn sem verður látinn borga milljóna skattsvik auðherranna. Verkamaðurinn hefur ekki sömu tök á að svíkja undan skatti og kapitalistinn sem

Framhald á síðu 7.

## Grein um húsnæðismál bls. 3

## Um Angóla sjá baksíðu

# BERJUMST GEGN STRÍÐS-ÓGNUNUM RISAVELDANNA!

Tveir stærstu heimsvaldaræningjarnir, Bandaríkin og Sovétríkin, ógna í dag heimsfriðnum með vígbúnaðarkapphlaupinu og tilraunum sínum til að stjórna þróun mála um heim allan.
Eins og böðlar með hunang í munninum tala þeir um "frið" og "afvopnun", meðan barátta þeirra um heimsyfirráð harðnar stöðugt og hernaðaruppbyggingin vex. Undanfarin ár hafa sýnt að risaveldin svífast einskis í baráttunni um heimsyfirráð. Réttur þjóða til sjálfstæðis og sjálfsákvörðunar er að engu hafður standi hann í vegi hagsmuna risaveldanna. Risaveldin standa að og viðhalda svartasta afturhaldi um allan heim. Bandaríkin ógna frið í Asíu með hótunum um árás á N-Koreu og Sovétríkin reka stórfellda útþenslustefnu á Indlandsskaga. Flotar risaveldanna hringsóla um öll heimshöf, auðvitað "allt í þágu mannkynsins og minnkandi spennu" eins og hugmyndafræðingar heimsvaldastefnunnar nefna það.
Þannig reyna risaveldin allstaðar að ná fótfestu með arðráns-og kúgunarklóm sínum.
Hagsmunir risaveldanna eru í óleysanlegri mótsögn við hagsmuni yfirgnæfandi meirihluta mannkynsins.
Þjóðir vilja frelsi, þjóðlönd vilja sjálfstæði, alþýðan vill byltingu.
Risaveldin reyna allt sem þau geta til að standa í vegi þessarar þróunar, því hún stefnir gegn arðránshagsmunum þeirra.
Nauðsyn aukinnar baráttu gegn risaveldunum er knýjandi.
Sjá nánar grein bls. 4

## Um Portúgal

Eins og komið hefur fram í fréttum eru heimsvaldaríkin full ótta um að þróun mála kunni að leiða til "stjórnleysis". Vestrænir fjölmiðlar sem ekkert fundu að meðan í landinu ríkti fasismi, barma sér nú yfir "hinu alvarlega ástandi". Allir heimsvaldasinnar gera sitt til að hafa áhrif á gang mála í Portugal. Jafnaðarmenn í V-Evrópu hafa lýst yfir að þeir vilji að stjórnarfar landsins verði sniðið eftir vestrænum lýðræðisháttum, og Ford Bandaríkjaforseti hefur lýst því yfir að Portugal sé á hefðbundnu áhrifasvæði Bandaríkjanna og auk þess mikilvægur liður í Nato sem ekki megi fara forgörðum.
Eins og önnur heimsvaldaríki reyna Sovétmenn að tryggja áhrif sín í Portugal. Kommúnistaflokkurinn í Portugal rekur mikinn pólitískan áróður fyrir Sovétríkjunum og ítökum þeirra, en Sovétríkin reyna sjálf að ná efnahagslegum ítökum í landinu með "efnahagsaðstoð". Risaveldin bítast á um Portugal, og hvort þeirra reynir að hafa áhrif á gang mála á kostnað hins.
Sjá nánar grein bls. 5.



Þann 21 ágúst voru 7 ár liðin frá innrás Sovétríkjanna í Tékkoslovakiu. Þar afhjúpaði sósíalheimsvaldastefnan berlega árásareðli sitt með því að fótumtroða rétt tékknesku þjóðarinnar til sjálfstæðis og sjálfsákvörðunnar. Undir yfirskyni "hjálpar" og "sósíalisks bræðralags" heldur sósíalheimsvaldastefnan ríkjum A-Evrópu undir hæl kúgunnar og arðráns, og skirrist ekki við að beita hervaldi gegn verkalýð og vinnandi alþýðu reyni hún að slíta sig undan oki Sovétríkjanna. Þetta fékk alþýða Tékkoslovakiu að reyna á hinum dökku ágústdögum árið 1968. Þetta var lexia sem pólskir verkamenn fengu frá sósíalheimsvaldastefnunni 1970 er þeir risu upp til baráttu gegn kúgun og misrétti. Þessir lærdómar ættu að vera verkalýð og vinnandi alþýðu Íslands til aðvörunnar um eðli sósíalheimsvaldastefnunnar.
Myndin hér að ofan sýnir sovéskan skriðdreka í Prag í ágúst 1968 sem tékknesk æska hefur merkt hakakrossinum - alþjóðlegu tákni fyrir kúgun og villimennsku.
Sjá nánar um atburðina í Tékkoslovakiu og baráttuna gegn sósíalheimsvaldastefnunni í leiðara bls. 2.

## Framtíð Vietnam-nefndarinnar sjá baksíðu

Átök i Sjalfstæðisflokknum:

## Hægri armurinn með "Nýja Vísi"

Rvík. 22.8. Þær væringar sem hafa að undanförnu staðið vegna útgáfu og ritstjórnar Vísis, hafa tæplega farið framhjá mörgum. Nú er svo komið að þeir sem urðu undir í baráttunni um ritstjórnina hafa ákveðið að stofna nýtt síðdegisblað, til höfuðs Vísi. Nú þegar hefur það lið, sem stendur að baki Jónasi Kristjánssyni safnað í sjóð um 50 milljónum kr., og söfnun auglýsinga er stunduð af miklum krafti. Þess er að vænta að sú söfnun gangi vel, því að baki "Nýja Vísi" standa margir af stærri burgeisum í verslunar- og viðskiptalífinu. Samkvæmt þeim upplýsingum sem Stéttabaráttan hefur aflað sér þá eru það þeir sem standa einna lengst til hægri í Sjálfstæðisflokknum sem styðja útgáfu nýja blaðsins. Og jafnframt er það sá hluti flokksins sem er einna óánægðastur með sinn hlut þessa dagana, þ.e. innflytjendur og heildsalar. Þessi hópur er í uppreisn, m.a. sökum þess að þeir telja hart að sér vegið með 12% vörugjaldinu og ýmsum fleiri aðgerðum ríkisstjórnar Geirs Hallgrímssonar. Sumir þessara aðstandenda "Nýja Vísis" eru svo langt til hægri í skoðunum að þeir kalla hluta flokksbræðra sinna sósíalista, en einmitt Albert Guðmundsson varð frægur fyrir á landsfundi flokksins fyrir að ákæra hluta hans fyrir að fylgja sósíalisma.

Eitt er víst, með tilkomu þessa blaðs aukast líkurnar á klofningi í "flokki allra stétta." Hægri armurinn hefur þá sitt eigið málgagn og er því óháðari núverandi flokksforystu en ella.

-/hh

Stéttabaráttan
ÖREIGAR ALLRA LANDA SAMEINIZT! LIFI MARXISMINN-LENINISMINN-HUGSUN MAÓS TSE TUNGS!
Leiðarinn er á ábyrgð miðstjórnar.

STÉTTABARÁTTAN, 8. tbl. 4. árg.
28. ágúst 1975.
Útg. Kommúnistasamtökin m-l
Pósthólf 1357 Reykjavík
Sími: 27810
Ritstj. og ábm.: Hjálmtýr Heiðdal.

# Sjö ár frá innrásinni í Tékkóslóvakíu

Sjö ár eru liðin síðan sovéskir bryndrekar héldu innreið sína í Prag, höfuðborg Tékkóslóvakíu. Sjö ár sem hafa rifið grímuna af sovésku valdhöfunum frammi fyrir alþýðu heimsins og afhjúpað hið sanna eðli þeirra. Á þessum tíma hafa nýju keisararnir í Kreml hert fjötrana á sovéskri alþýðu, friðarstefna Sovétríkjanna eru innantóm orð til að



Tékkneskir borgarar gera aðsúg að skriðdreka rússnesku heimsvaldasinnanna, þegar þeir síðarnefndu réðust inn í Tékkóslóvakíu 1968.

hylja vígbúnaðaræðið, vináttutengsl sovétþjóðanna eru orðin að stórrússneskri þjóðrembingsstefnu gagnvart öðrum þjóðum og þjóðabrotum, sovétframleiðslan sem áður vakti undrun og aðdáun heimsins er í úlfakreppu, verkalýðurinn og alþýðan sem áður naut mestu mannréttinda veraldarinnar er okuð af fámennri klíku endurskoðunarsinna. Böl kapitalismans - atvinnuleysi, ófrelsi, misrétti, fjármálaspilling og drykkjuskapur - allt hefur þetta lagst aftur á líkama hinnar hetjulegu sovétþjóðar. Sjálfur kjarninn í meinsemdinni, orsökin fyrir úrkynjuninni, er hin ófyrirleitna og gerspillta morðingjaklíka endurskoðunarsinnanna í Kreml. Allt sem var göfugt og framsýnt í starfi sovétþjóðanna er þurrkað burt, í stað óbilandi dugnaðar og fórnarlundar kemur sókn í gróða, í stað samhyggju og bræðralags kemur einstaklingshyggja og einokun, í stað sósíalisma kemur kapitalísk heimsvaldastefna, í stað marxismans-lenínismans kemur lygaþvættingur og falsanir Brésnefs. Þarf vitna við? Við köllum undanfarin sjö ár til vitnis um þetta. Innrásina í Tékkóslóvakíu, árásina á Kína við Ussurifljót, morðin á pólskum verkalýð við Eystrasalt, stuðning Sovétríkjanna við glæpahyski Lon Nols í Kambódíu, stuðninginn við fasískar aðgerðir Indiru Gandhi, herstöðvar Sovétríkjanna í Sómalíu, á Kúbu, á Indlandi, valdaránið í Afganistan. Þarf frekari vitna við?

Við köllum sovéska alþýðu til vitnis, sem hefur mætt stormsveitum Rauða hersins í hvert skipti sem hún hefur krafist lýðréttinda sinna. Við köllum verkamennina við Kharkov-traktorverksmiðjurnar til vitnis um að blóð þeirra hefur gefið sovéska hernum nýtt inntak í orðið "rauður." Áður var Rauði herinn tákn blóðsins sem öreigarnir úthelt í baráttu sinni fyrir frelsi og friði, gegn rússneska keisaranum og grimmdaræði hinnar alþjóðlegu borgarastéttar. Nú er hann rauður af blóði sovésks verkalýðs, sovéskrar alþýðu og alþýðu heimsins. Brésnef-klíkan notar nú traust og áhrif kommúnismans meðal alþýðu heimsins til að villa henni sýn og dylja grimmdarverk sín. Hún notar ljómann sem stafar af sögu og baráttu sovéskrar alþýðu til að blinda augu alþýðunnar, svo hún geti unnið myrkraverk sín óáreitt. Hún notar nafn sósíalismans sem yfirdrep, þegar hún fremur afbrotin sem standa fjærst sósíalismanum og gerir þess vegna málstað verkalýðsins ómælanlegt ógagn. Hún varpar rýrð á hugsjónir og baráttumarkmið allra sannra lýðræðissinna og kommúnista, með því að fremja ódæðisverk sín í nafni sósíalismans. Einmitt þess vegna er hún hættulegur og svarinn fjandmaður verkalýðs og vinnandi alþýðu, einmitt þess vegna verður að svipta hulunni af rándýrseðli hennar, einmitt þess vegna köllum við íslenskir kommúnistar alla heiðarlega lýðræðissinna og framfarasinna til ósveigjanlegrar og miskunnarlausrar baráttu gegn henni. Sovéska sósíalheimsvaldastefnan á sér engan líka í fólskuverkum og grimmdaræði nema blóðhunda bandarísku heimsvaldastefnunnar og þýsku nasistana. Sumir kunna að segja að Sovétríkin hafi ekki sýnt slíka glæpi í verki, að hún jafnist engan veginn á við þjóðarmorðingjana í Berlín og Washington í verki. En við segjum: Bíðum ekki eftir að Brésnef-klíkan fái tækifæri til að sýna blóðþorsta sinn í nýrri heimsstyrjöld, bíðum ekki eftir að hún trampi milljónir alþýðufólks undir járnhælum sínum, bíðum ekki þar til það er um seinan, afhjúpum hana strax.

KSML hvetja íslenskan verkalýð og allt íslenskt alþýðufólk til að opna augu sín fyrir stríðshættunni sem býr í hernaðar- og útþenslustefnu sovésku endurskoðunarsinnanna og hefja öfluga baráttu gegn henni nú þegar. Við þekkjum Bandaríkin og myrkraverk þeirra í Víetnam, Guatemala, Palestínu - já, um alla veröldina og erum reiðubúin til baráttu gegn þeim þegar í dag. En allt of margir skilja ekki hættuna af sovésku heimsvaldastefnunni og vanmeta árásarundirbúning hennar. Allt of margir gleyma að sósíalisminn er bara í munni Brésnef-klíkunnar, að hún er fasísk og heimsvaldasinnuð í verki. Skerpum árvekni okkar gagnvart risaveldunum og styrjaldarhættunni sem þau eru að magna upp, skerpum árvekni okkar gagnvart sovésku sósíalheimsvaldastefnunni og bandarísku heimsvaldastefnunni. Skipum okkur í raðir andheimsvaldasinna um víða veröld, við hlið víetnamskrar, palestínskrar, tékkneskrar og alþýðu annarra landa - fyrir þjóðfrelsi, heimsfriði og sósíalisma.

21/8.

---

Starf Víetnam-nefndarinnar á Íslandi hefur nú orðið til þess, að íslenska ríkisstjórnin hefur tekið upp stjórnmálasamband við BBS í S-Víetnam, og hafa hinar tvær ríkisstjórnir ákveðið að skiptast á sendiherrum.

---

## Hafið samband við KSML

Eskifjörður: Umboðsmaður er Emil Bóason, Hátúni, sími: 6138.

Hafnarfjörður: Fulltrúi KSML er Fjóla Rögnvaldsdóttir, Vitastíg 3.

Hellissandur: Umboðsmaður fyrir útgáfuefni KSML er Sigfús Almarsson, Skólabraut 10.

Ísafjörður: Umboðsmaður fyrir útgáfuefni KSML er Agnar Hauksson, Tangagötu 20, sími: 3651.

Neskaupsstaður: Stuðningsdeild KSML, Pétur Ridgewell, Miðhúsum.

Ólafsvík: Stuðningsdeild KSML, Matthías Sæmundsson, Hjarðartúni 10.

Sauðárkrókur: Umboðsmaður fyrir útgáfuefni KSML er Einar Helgason, Víðigrund 6 (þriðja hæð).

Siglufjörður: Söluturninn, Aðalgötu er með umboðssölu fyrir Stéttabaráttuna og Rauða fánann.

Stykkishólmur: Umboðsmaður fyrir útgáfuefni KSML er Ólafur Þ. Jónsson, Ás.

Suðurnes: Stuðningsdeild KSML, Jónas H. Jónsson, Holtsgötu 26, Njarðvík. Sími: 2641.

BREYTT HEIMILISFÖNG:

Akureyri: Stuðningsdeild KSML, Guðvarður M. Gunnlaugsson, Helgamagrastræti 23, sími: 23673/ pósthólf 650, Akureyri.

Húsavík: Umboðsmaður fyrir útgáfuefni KSML er Þórarinn Ólafsson, Sólbrekku 5.

Reykjavík: KSML, Lindargötu 15, eða pósthólf 1357, sími: 27810.

NÝIR UMBOÐSMENN:

Egilsstaðir: Umboðsmaður fyrir útgáfuefni KSML er Stefán Jóhannsson, Bjarkarhlíð 6.

Vestmannaeyjar: Umboðsmaður fyrir útgáfuefni KSML er Guðrún Garðarsdóttir, Þorlaugargerði, Vestmannaeyjum.

---

# Sumarmót KSML

Um verslunarmannahelgina var sumarmót KSML haldið í Krýsuvík. Mætt var á staðinn um hádegið á laugardeginum í dágóðu veðri. Þegar fólk var búið að koma sér fyrir var farið í gönguferð upp á Arnarfell, og síðan farið í ýmsa leiki (fótbolta, blak o.fl.). Um kvöldið var kvöldvaka með yfirskriftinni: Listin á að þjóna alþýðunni. Í upphafi hennar var flutt erindi um listir og bókmenntir. Í kjölfarið fylgdi ýmis konar skemmti- og fræðsluefni: Ljóðalestur, söngur, upplestur úr verkum Brechts o.fl.

Á sunnudeginum voru hópaumræður þar sem rætt var um flokksbygginguna og verkefni marxista-lenínista í því sambandi. Fyrir mótið höfðu félagar lesið grein Dimitrovs: Efling kommúnistaflokkanna og baráttan fyrir pólitískri einingu verkalýðsins, og var hún höfð til grundvallar við umræðurnar.

Allar umræður voru á félagalegum grundvelli og höfuðáherslan lögð á pólitíska einingu. Auk félaga í KSML og stuðningsmanna, sóttu mótið tveir fulltrúar EIKm-l í boði miðstjórnar KSML.

Áformaðar voru almennar umræður á mánudeginum, en sökum illviðris varð að slíta mótinu degi fyrr en ætlað hafði verið og fórust þær því fyrir. Einnig varð að hætta við kvöldskemmtun sem helga átti 30 ára afmæli sigursins yfir fasismanum, en búast má við að eitthvað af því efni sem þar átti að flytja verði flutt seinna á fundi eða skemmtun hjá KSML.

Í heild tekið, tókst sumarmótið vel, góður andi ríkti og jákvæðar niðurstöður af pólitísku umræðunum. Til að bæta það upp, að slíta varð mótinu vegna veðurs, er skemmtiferð áformuð seinna í haust.

-/ISJ

---

# Sumarmót EIKm-l

Dagana 15-17 ágúst var sumarmót EIKm-l haldið á Siglufirði. Auk félaga og stuðningsmanna EIKm-l tóku gestir frá KSML og norska kommúnistaflokknum AKPm-l, þátt í mótinu. Mótið fór hið besta fram og félagsandi í pólitískum umræðum sem og skemmtunum var áberandi. Umræðuefni þessa fyrsta sumarmóts EIKm-l voru tvö, sovéska sósíalheimsvaldastefnan og hagfræðilegt þróunarstig íslenska auðvaldsþjóðfélagsins. Á laugardagskvöldinu var flutt skemmtidagskrá og ýmist efni er varðar sögu og baráttu verkalýðsstéttarinnar tekið til meðferðar. Meðal efnis voru baráttuljóð og -söngvar, leikrit, upplestur o.fl. Tókst kvöldvakan með ágætum. Mótinu var slitið að loknum umræðum sunnudaginn 17. ágúst.

Í umræðuefni sumarmótsins kom fram róttæk afstöðubreyting EIKm-l til höfuðmóthverfunnar í íslenska þjóðfélaginu og í umræðunum sjálfum lýstu forvígismenn EIKm-l því yfir, að vígorðið "stétt gegn stétt" væri alls ekki rangt eða afvegaleiðandi eins og fyrri afstaða EIKm-l var, heldur fullkomlega réttmætt í dag. Þá hafa EIKm-l fallið frá þeirri afstöðu sinni, að einhver hluti borgarastéttarinnar gæti verið byltingarsinnaður eða strategískur bandamaður verkalýðsins og í umræðuefni mótsins segir: "...einokunarvana auðvaldið er grimmur andstæðingur alþýðunnar." Þessi afstöðubreyting ásamt skorinorðari afstöðu til forystuhlutverks verkalýðsins í sósíalísku byltingunni færir samtökin tvö nær hvorum öðrum. KSML fagna þessari afstöðubreytingu og eru sannfærð um að baráttan fyrir sameiningu íslenskra marxista-lenínista hefur náð nýjum áfanga með þessu sumarmóti. Uppgjör íslenskra marxista-lenínista við hvers konar hentistefnu hvort sem vera skal hægri eða "vinstri", er grundvöllur sameiningar í einn kommúnískan flokk. Afstöðubreyting KSML til starfsins í fjöldasamtökum og verkalýðsfélögum og afstöðubreyting EIKm-l til strategískra bandamanna verkalýðsstéttarinnar eru stór skref í átt að þessari sameiningu.

Það ber hins vegar að harma, að talsmenn EIKm-l á sumarmótinu skoruðust undan sameiginlegri yfirlýsingu samtakanna tveggja gegn sósíalheimsvaldastefnunni og sameiginlegri baráttu í þessu máli. Vonandi kemst á samstaða í baráttunni gegn sovésku endurskoðunarstefnunni og sósíalheimsvaldastefnunni innan tíðar, slíkt er án efa tímabært og nauðsynlegt.

-/KG, ÓI

---

framhald af bls. 5

# Portúgal

menn settu á framleiðslustöðvun til þess að knýja fram hærra fiskverð. -Verfallsbrots-sardínur- kölluðu sjómennirnir þennan rússneska glaðning.

Verkalýðurinn í Portúgal hefur svo sem lært ýmislegt um sósíalheimsvaldastefnunnar síðasta árið. Og verkalýðsstéttin hefur lært meira, nefnilega lært að þekkja hinn erkiendurskoðunarsinnaða, moskvutrúa "kommúnistaflokk" Portúgals, PCP. Flokkinn sem einn allra flokka lifði af fasismann og kom sterkur til leiks og vel skipulagður eftir valdatöku MFA í apríl í fyrra. Flokkur sem margir verkamenn trúðu á að þar færi þeirra framvarðasveit, fullur baráttuvilja og krafts. En hver var þá baráttukraftur PCP?

## PCP gegn verkalýðnum

Þegar eftir valdatöku MFA lagði PCP út í andstöðu við verkföll og aðrar aðgerðir verkalýðsstéttarinnar til stuðnings hagsmunskröfum sínum. PCP lagðist gegn "útskúfun" gamalla fasista sem enn sitja víða í embættum og valdastöðum. PCP lagðist af fullri hörku gegn upptöku auðra íbúða o.fl. PCP kallaði gjarnan verkfallsmenn "ábyrgðarlausan æsingaskríl" því þeir vildu ekki fylgja flokknum í slagorðinu "að stóla á MFA og herinn." Stéttabaráttan myndi skapa "ringulreið" sagði PCP. Þetta gerðist ekki aðeins einu sinni heldur endurtók þetta sig hvað eftir annað í fjölda stærri og minni verkfalla. Þá hefur PCP tangarhald á Verkalýðssambandinu (ASÍ Portúgals), sem skrifaði undir hin svonefndu bann-verkfallslög í ágúst í fyrra, lagabálk sem gerir það útilokað að fara í löglegt verkfall. Engu að síður hefur verkalýður Portúgals gefið skít í þetta kúgunartæki sem lögin eru og fara í verkfall þegar þurfa þykir. Það segir okkur reyndar að fullur baráttuhugur fyrir stéttarlegu hlutverki sínu býr meðal fjölda verkamanna í Portúgal, þrátt fyrir PCP.

## Útsendarar sósíalheimsvaldastefnunnar

Það er stór hluti af starfi PCP að vera útsendari sósíalheimsvaldastefnunnar í Portúgal. Kerfisbundið fegrar flokkurinn austurblokkina í blöðum sínum, hljóðvarpi og sjónvarpi þar sem PCP tókst með ágætum að koma sér fyrir eftir valdatökuna í fyrra, því fjöldi endurskoðunarsinnaðra blaðamanna og útvarpsfólks tókst nefnilega að hreiðra um sig innan þessara hópfjölmiðla á valdatíma fasistanna. Sem dæmi um dýrkun PCP á Sovét má nefna það, að flokkurinn heldur því hiklaust fram að vegna hernaðarstyrks Rússlands "sé það mögulegt að hindra að ný heimsstyrjöld brjótist út." Gæti Brésnéf hugsað sér betra?

## Fylgistap endurskoðunarsinnanna

Verkalýðsstétt Portúgals tók fljótlega við sér gegn endurskoðunarstefnu PCP. Óopinber Gallup-skoðanakönnun taldi t.d. fylgi PCP yfir 20% atkvæða í fyrrahaust, þessi tala datt niður í 12% í kosningunum í vor og nú er talið að Gallup sýni 6-7% fylgi flokksins. PCP tók strax eftir valdatöku MFA yfirráð yfir Verkalýðssambandinu og tókst jafnframt að knýja fram löggjöf þess efnis, að aðeins ein heildarsamtök, þeirra verkalýðssamband, væru hin löglegu heildarsamtök verkalýðsins í landinu. En einnig það gengur ekki. Í júlí s.l. átti að fara fram fyrsta ráðstefna Verkalýðssambandsins. Mikið var rætt um það innan einstakra fagfélaga að hunsa þessa ráðstefnu í mótmælaskyni við endurskoðunarsinnaða stefnu sambandsins og PCP. Hversu mörg fagfélög hunsuðu ráðstefnuna er því miður á huldu ennþá eða það, hvort ráðstefnan fór fram eins og ætlað var hefur okkur ekki tekist að afla upplýsinga um.

Þessi afturkippur í fjöldafylgi PCP þýðir ekki að flokkurinn sé búinn að vera. Síður en svo, hann er enn einn best skipulagði flokkur landsins og hefur víðar lykilaðstöðu en séð verður. Hann fær fjármagn frá Kreml. Marxisti-lenínisti orðaði þetta þannig: "Ruglið ekki saman sjálfri sósíalheimsvaldastefnunni og þeim pólitíska flokk sem styður hana opinskátt. Endurskoðunarsinnaflokkurinn er nógu stór stoð fyrir sósíalheimsvaldastefnuna, og þar því hvorki að fara með ríkisvaldið né vera neinn fjöldaflokkur til þess að hrifsa alræðið í sínar hendur." Viku seinna staðfesti Indira Gandhi sannleiksgildi þessara orða.

Starfsvettvangur sósíalheimsvaldasinnanna er nægur í Portúgal. Efnahagslíf landsins er KREPPA. Óhagstæður viðskiptajöfnuður við útlönd hefur enn aukið á glundroðann og gjaldeyrisvarasjóðurinn (mest gull) er brátt þurrausinn. Framleiðslan hefur dregist saman um 6%. Atvinnulausir eru trúlega yfir 10% - 300.000 verkamenn, og verðbólgan fer hraðvaxandi. Hið svokallaða "hlutleysi" heimsvaldasinnanna í vestri, sem stafar m.a. af eigin kreppu heima fyrir, gefur sósíalheimsvaldastefnunni byr undir vængi og mikla möguleika.

Vegna þjóðnýtingar innlendra þjónustufyrirtækja, s.s. almenningsvagna, pósti og síma, nokkurra banka og tryggingarfélaga auk 8-10% af innlendum iðnaði hefur hópur ríkiskapitalískra skriffinna og tæknimanna vaxið fram einkum úr smáborgarastéttinni og meðal "verkalýðsaðalsins." Það er því einkum meðal þessara nýliða kerfisins sem sósíalheimsvaldastefnan telur sér hauka í horni, - en ekki bara hjá PCP.

MFA tók völdin í Portúgal í örvæntingarfullri tilraun til að leysa þá kreppu sem þjóðfrelsishreyfingar í nýlendum portúgala í Afríku höfðu komið borgarastéttinni í. En þrátt fyrir frábæra leikni með skurðarhnífinn, er glundroði sjúklingsins enn óleystur. Kreppan skerpist og dýpkar með hverjum deginum sem líður. Margir "umbótamannanna" staðnæmast á ríkisjötunni við hliðina á gömlu góðu fasistunum sem flestir eru þar enn. Verðbólgan gerði strax að engu þær launahækkanir sem veittar voru í fyrra, og gott betur. Vaxandi ótrú ríkir í garð MFA, einmitt vegna þess að fólkið trúði á umbætur, umbætur sem aldrei komu. Hinir hefðbundnu hægri fasistar skipuleggja sig nú betur og talið er víst að verið sé að koma á fót fastaher (ELP) eða innrásarliði gamalla fasista á Spáni.

## Kúgun eflir andstöðu

Verkalýðsstétt Portúgals stendur nú augliti til auglitis við vandamál framtíðarinnar og stéttabaráttunnar. Í Portúgal skortir fyrst og fremst sterkan leiðandi og byltingarsinnaðan flokk, pólitískan framvörð stéttarinnar og alþýðuher. Vopnuð barátta er nauðsyn og vopnin eru til. Sósíalheimsvaldastefnan, sósíalfasistarnir og allir aðrir afturhaldsseggir skulu ekki telja sig of fasta í sessi, því það eru veik völd sem grundvallast á kúgun og vissulega gerir kúgun ekki annað en að efla andstöðu, andstöðu sem leiðir til byltingar.

-/ST (-þýtt úr Klassekampen, nr. 26 7. árg.)

# VERKALÝÐSBARÁTTAN

Stuðningsdeild KSML á Snæfellsnesi hefur hafið útgáfu blaðs sem valið hefur verið nafnið VERKALÝÐSBARÁTTAN. Í fyrsta tölublaði sem kom út fyrir nokkru eru 6 greinar og eitt viðtal við sjómann á Sandi. Um tilgang blaðsins segir í leiðara:

"Svo sem heiti blaðsins gefur til kynna er það fyrst og fremst ætlað vinnandi alþýðu til sjós og lands. Fyrirhugað er að það flytji fréttir af vinnustöðunum og færi fram málstað verkalýðsins jafnt í kjaramálum sem pólitík."

Meðal efnis má nefna grein er ber yfirskriftina: Burt með sinnuleysið- fram til baráttu, þar sem fjallað er um nauðsyn sjálfstæðrar skipulagningar verkafólks til baráttu gegn kjaraskerðingum auðvaldsins og stéttasamvinnustefnu ASÍ-forystunnar; ennfremur Verkafólk svikið um orlofsfé, Níðst á skólabörnum í Rifi, o.fl. Einnig er þar grein um námshringi KSML.

Blaðið er fjölritað, 4 síður í A4 broti. Þeir sem vilja fá eintök af blaðinu geta snúið sér til Hauks Sigurðarsonar, Munaðarhól 6, Hellissandi, og gerst áskrifendur. Áskriftarverð fyrir 1. árgang er kr. 300. Einnig er blaðið selt í Rauðu Stjörnunni í Reykjavík.

VERKALÝÐSBARÁTTAN

Burt með sinnuleysið
Fram til baráttu

Aukin vinnuþrælkun...

# Kínverska skipið heimsótt

Eins og kunnugt er af fréttum var kínverskt flutningaskip statt hér við land seinni part júlímánaðar til að taka álfarm frá álverksmiðjunni í Straumsvík. Straumsvíkursellu KSML var boðið að heimsækja skipverja ásamt stuðningsmönnum, og færði hún skipverjum að gjöf Ritgerðir Maós á íslensku og nokkur eintök af Straumsvíkurverkamanninum. Tilgangurinn með för kínverska skipsins hingað til lands var ekki eingöngu sá að taka álfarm, heldur fyrst og fremst að styrkja vináttubönd kínversku og íslensku þjóðanna.

Skipverjar létu í ljós ánægju með dvöl sína hér og gátu þess sérstaklega, hversu vingjarnlegir og gestrisnir íslendingar væru. Sellufélagar sögðu það vera utanríkisstefnu kínverska alþýðulýðveldisins að þakka, hve mjög tengsl þjóðanna hefðu farið í vöxt á undanförnum árum, jafnframt því sem skilningur íslenskrar alþýðu á viðleitni kínversku þjóðarinnar til eflingar friðar í heiminum og baráttu gegn stríðsfyrirætlunum risaveldanna hefði aukist til muna.

Kínverska flutningaskipið, Han Chuan, við bryggju í Straumsvík.

# Burt með sinnuleysið Fram til baráttu

Stefna verkalýðsforystunnar í dag er mörgum alvarlegt íhugunarefni. Slíkt er ekki að undra þegar litið er til þess að eftir áratugalanga kjarabaráttu undir forystu sósíaldemókratískra verkalýðsforingja fara lífskjör verkafólks sífellt versnandi. Í hverjum kjarasamningunum á fætur öðrum semur ASÍ upp á smánarbætur sem vega ekkert upp í verðbólguna og kjaraskerðingar ríkisvalds og atvinnurekenda.

En ekki þýðir að skella allri skuldinni á forystuna varðandi hnignunina og máttleysið í verkalýðshreyfingunni. Við skulum viðurkenna hreint út að orsakanna er að sumu leyti að finna hjá verkafólki sjálfu. Verkalýðsfélögin eru ennþá byggð upp á lýðræðislegan hátt og almennir félagsmenn geta og hafa rétt til að lýsa yfir verkföllum og skipta um forystu. Samt er reyndin sú að fundir eru með afbrigðum illa sóttir. Fólk nennir ekki að eyða fáeinum mínútum af tíma sínum til að mæta á fundum um lífshagsmunamál sín. Við höfum nærtækt dæmi héðan úr Ólafsvík.

Þrátt fyrir að samningar ASÍ væru hart gagnrýndir manna á meðal og þótt menn sæju hart vegið að lífskjörum sínum var áhuginn ekki meiri en svo að aflýsa varð fundi um samninganna vegna dræmrar aðsóknar. Vissulega á þetta sér margar félagslegar orsakir, s.s. þeirrar stefnu verkalýðsforystunnar að drepa niður allt pólitískt frumkvæði almennra verkamanna og hindra sjálfstæða skipulagningu þeirra í stéttabaráttunni.

En slíkar orsakir eru torfæra sem unnt er að yfirstíga: baráttusamstaða bifvélavirkjanna á Selfossi og verkamannanna í Sigöldu sanna það. Það er skorturinn á stéttarvitund og félagsáhuga sem veldur dræmri aðsókn og lélegri þátttöku í starfi verkalýðsfélaganna hér á Nesinu.

Eftir bráðabrigðasamningana í mars sendi verkalýðsfélagið hér í Ólafsvík út harða gagnrýni á forystu ASÍ fyrir linkind og undanslátt í samningamálum. Þetta var ályktun sem sýndi að Hinrik og félagar voru ögn að taka við sér, að þeir vildu ekki una svikum verkalýðsaðalsins lengur. En var þessu fylgt á eftir? Nei! Helsti ræðumaður verkalýðsfélagsins 1. maí var enginn annar en Ólafur Hannibalsson skrifstofustjóri. einn helsti broddur ASÍ. Forystumenn verkalýðsfélagsins hér í Ólafsvík lýsa sig þannig fúsa til að lúta forsjá ASÍ-klíkunnar, þrátt fyrir að hún hafi sýnt það fullkomlega að hún gæti ekki hagsmuna verkalýðsins. Það nægir að líta á samsetningu ASÍ-forystunnar til að sýna fram á það. Þar finnum við ekki lágt launaða og óbreytta alþýðumenn, heldur í langflestum tilfellum hálaunaða ríkisembættismenn, alþingismenn, ráðgjafa hjá auðfyrirtækjum, bitlingahítir o.s.frv. Menn sem hafa sagt skilið við lífskjör og lifnaðarhætti verkafólks.

Hvernig geta náungar á borð við Björn Jónsson og Eðvarð Sigurðsson sett sig í spor verkamanns með 300 kr. tímakaup? Við getum einskis góðs vænst úr þeirri átt. Þeir forystumenn sem ekki vilja skilja að sjálfstæð barátta verkafólks á hverjum stað er nauðsynleg, þeir sem enn vilja hlýða skipunum frá skrifstofubákninu, verða að víkja. Verkamenn verða að treysta á sjálfa sig og enga aðra, ef þeir vilja ná fram mannsæmandi kjörum og jafnrétti. Þeir verða að þroska með sér stéttarvitund og félagslegt frumkvæði. Slíkt er frumforsenda þess að unnt sé að gera verkalýðshreyfinguna að því reginafli sem hún er í eðli sínu.

# Hroki yfirmanna færist i vöxt

HVER ER NÆSTUR?

Til Starfsmanna Ísal Straumsvík.

Þau tíðindi gerðust 19. júní að starfsmanni í kerskála II Arnóri Þórðarsyni var sagt upp starfi alveg að tilefnis og fyrirvaralaust. Þar sem Arnór Þórðarson er að mati sinna vinnufélaga, talinn góður starfsmaður er uppsögn þessi gróf árás á Arnór og reyndar okkur alla, sem vinnum hjá ÍSAL, þar sem spurningin er--- HVER ER NÆSTUR?

Við skulum ekki gleyma gerþóttauppsögninni á Selfossi nýverið, og hvers vegna það mál fékk farsælan endi.

ÞAR KOM TIL EINHUGA SAMSTAÐA VINNUFÉLAGANNA.

Ef forráðamenn ÍSAL breyta ekki sinni afstöðu í þessu máli, og afturkalla uppsögnina tafarlaust, verður leitað til allra starfsmanna ÍSAL um stuðning Arnóri til handa því---

HVER ER NÆSTUR???

Verkamenn í Straumsvík.

Dreifiritið sem verkamenn gáfu út til að berjast gegn hinni gerræðislegu uppsögn.

Þau tíðindi gerðust í álverinu í Straumsvík 19. júní s.l. að starfsmanni í kerskála var sagt upp starfi fyrirvaralaust. Kom þetta mönnum nokkuð á óvart og þótti slæmur fyrirboði, þar eð starfsmaður þessi hafði unnið nokkuð lengi hjá Ísal og ekki vitað annað en hann væri starfskraftur góður og stundaði sína vinnu vel. Strax og þetta var ljóst gáfu nokkrir verkamenn í Straumsvík út dreifirit, þar sem skorað var á forráðamenn Ísals að afturkalla uppsögnina tafarlaust, ella yrði leitað eftir stuðningi frá öllum starfsmönnum verksmiðjunnar. Við svo harkalegar gagnaðgerðir og við það að finna samstöðu verkamanna í þessu máli, urðu forráðamenn fyrirtækisins felmtri slegnir og drógu uppsögnina til baka þegar í stað.

Yfirmenn fyrirtækisins voru harla tregir til að gefa upp hina raunverulegu ástæðu fyrir brottrekstrinum, enda ekkert gefið upp um slíkt í uppsagnarbréfinu, er áðurnefndur starfsmaður fékk. Má vera að með þessu hafi þeir verið að reyna, hversu langt þeir gætu gengið í kúgun á verkamönnum í Straumsvík. En þar sem embættismenn þessir vilja gjarnan sýna okkur verkamönnunum hvoru megin valdið er og láta óspart í ljós hollustu sína við yfirboðarana í Sviss, neituðu þeir að kyngja þeirri staðreynd, að hafa orðið að láta í minni pokann fyrir samtakamætti verkalýðsins og hugðust nú koma fram hefndum. Var nú uppsagna- og hótunarbréfum dreift á báða bóga af minnsta tilefni, en þó keyrði fyrst um þverbak, er starfsmaður í kerskála fékk áminningarbréf fyrir að neita að vinna með ónýtu verkfæri. Hann var sem sagt áminntur um það að hlýða settum fyrirmælum um öryggisreglur.

Hrokafull afstaða yfirmannanna í álverinu gagnvart verkamönnunum á staðnum er ekkert einsdæmi. Hún hefur verið fyrir hendi allt frá því verksmiðjan var reist. Þó hefur heldur slakað á seinni árin vegna andstöðu verkamanna. Hafi þessir yfirmenn einhvern tíma notið virðingar af hálfu starfsmanna, er hún að líkindum með öllu horfin núna.

Kúgunin á verkamönnunum hefur komið nokkuð vel í ljós í sambandi við þá öryggiskeppni, sem háð hefur verið innan fyrirtækisins og er greinilega gerð í þeim tilgangi að sundra verkamönnum innbyrðis, þar sem um er að ræða keppni milli einstakra starfshópa og deilda um það, hver hafi fæsta slysadagana. Reglur kveða m.a. svo á um, að slys skuli ekki skráð nema viðkomandi starfsmaður hafi verið lengur en þrjá daga fjarverandi. Þegar þessir þrír dagar eru liðnir hefur það mjög oft komið fyrir, að einhver verkstjóranna hefur hringt og beðið hann að mæta til vinnu, svo viðkomandi deild komist hjá því að skrá slys hjá sér. Þannig hafa menn verið píndir til að mæta reifaðir og með öllu óvinnufærir.

Á undanförnum mánuðum hefur hroki yfirmannanna í Straumsvík heldur farið í vöxt. Slíkt er engin tilviljun og verður að skoða í samhengi við ástandið í þjóðfélaginu í heild. Þegar ótryggt er um atvinnu manna á hinum almenna vinnumarkaði, leyfa þeir sér að ganga nokkuð lengra á hlut verkamanna en ella, þar eð menn geta ekki svo auðveldlega sagt upp starfi og fengið vinnu annars staðar.

**Gerist áskrifendur að STÉTTABARÁTTUNNI**

# Styrktarmenn Stéttabaráttunnar

Með 7. tölublaði Stéttabaráttunnar sendum við bréf til áskrifenda þar sem skorað var á þá að gerast styrktarmenn blaðsins. Nú þegar hafa nokkrir brugðist við kallinu og gerst styrktarmenn. Við skorum á alla hina að drífa í þessu og senda okkur styrktarframlagið sem fyrst.

Eins og við skýrðum frá í bréfinu þá stendur til að hefja útgáfu vikulegs fréttabréfs á vegum blaðsins. Þetta fréttabréf er jafnframt fyrsti vísirinn að vikulegri útgáfu blaðsins. Fyrst um sinn eru það eingöngu styrktarmenn sem fá þetta fréttabréf - en það kemst ekki á laggirnar fyrr en viss fjöldi styrktarmanna er til staðar. Enn höfum við ekki náð þeirri tölu. Við skorum því á þá lesendur blaðsins, sem ekki eru áskrifendur að koma til liðs við blaðið og gerast styrktarmenn sem fyrst.

Við þekkjum öll þá annmarka sem eru á því að gefa blaðið út mánaðarlega. Því fyrr sem fréttabréfið kemur út - því nær stöndum við því marki að gefa út vikublað. Útgáfa fréttabréfsins (þ.e. styrktarmannakerfið) styrkir fjárhag blaðsins. Ennfremur mun fréttabréfið þjálfa ritstjórnina í starfi sínu. Mánaðarblaðið er gott svo langt sem það nær, en við erum í sífelldum vandræðum með allt það efni sem við höfum í höndunum, það kemst ekki allt í 8 síðna mánaðarblað. Einnig verður hluti þess efnis, sem við birtum, fljótlega "gamalt" og við getum ekki fylgt málunum eftir eins og æskilegt er. Við þessu er aðeins eitt ráð - aukin útgáfutíðni.

Ekkert hik - sendu okkur styrktarframlagið sem fyrst. Næsti banki eða pósthús tekur við greiðslu inn á gíróreikning blaðsins nr. 27810. Lægsta framlag er kr. 500 á mánuði. Engin takmörk þar fyrir ofan.

-/ritstj.

# Húsnæðissvindlið Hvað er til ràða?

Ástandið í húsnæðismálum í flestum stærstu kaupstöðum landsins og sérstaklega í Reykjavík jaðrar við neyðarástand. Þeir sem þurfa að leigja sér húsnæði eru undirseldir hóp húsaleigubraskara og okrara sem raka saman stórfé á neyð annarra. Gagnvart þessum mönnum eru leigutakar algerlega réttindalausir. Ef maður er ekki tilbúinn að greiða allt að 30 þúsundum fyrir ekki stærri íbúð en 2ja herbergja utan hita og rafmagns og kannske hálft ár fyrirfram, getur reynst erfitt að ná í íbúð. Lögin aðstoða við þetta, og lögum samkvæmt er húsaleiga ekki frádráttarbær til skatts. Það er hverjum manni ljóst að þar sem verkamannakaup er ekki nema um 60 þús. á mánuði er erfitt að borga helming þess í húsaleigu.

En auk þeirra sem eiga leiguhúsnæði eru fleiri sem vilja ná í skjótfenginn gróða með því að klípa sinn bita af kökunni. Það eru til fyrirbæri í Reykjavík sem kallast húsaleigumiðstöðvar. Starfsemi þeirra er rekin á þeim grundvelli að leigutaki borgar ákveðna upphæð (2000 kr. ef hann vantar tveggja herbergja íbúð, meira ef um stærri íbúð er að ræða) og í staðinn lofar húsaleigumiðstöðin að hafa samband við hann ef eitthvert húsnæði skyldi bjóðast. Fyrir peninginn er nafn manns á skrá í 1 mánuð, en engin trygging er gefin fyrir að yfirhöfuð verði haft samband við viðkomandi, né að honum verði útvegað húsnæði. Það getur verið að þessi starfsemi hafi hjálpað einhverjum, en þeir eru ábyggilega fleiri sem tapað hafa pening án þess að fá nokkuð í staðinn.

Það er vissulega þörf á stofnun samtaka þeirra er leigja til að berjast gegn okri og níðingsskap braskaranna og til að berjast fyrir því að réttarstaða leigjenda verði leiðrétt og komið á eftirliti með þeim er leigja út húsnæði. Hins vegar hlýtur sú spurning að vakna, hvort sá hluti verkafólks sem telst búa í eigin húsnæði, sé ekki á margan hátt undir sömu sök seldur og leigjendur. Verkamaður sem á íbúð þarf að greiða háar afborganir af lánum og stendur jafn slyppur og snauður á götunni og leigjandinn, standi hann ekki í skilum.

Það er einföld staðreynd, að hér á landi býr í hæsta lagi ein af hverjum fjórum verkamannafjölskyldum í leiguhúsnæði. Samtök, sem einungis miðuðust við leigjendur, útilokuðu því þegar í upphafi 3/4 hluta alþýðufólks. Það er alkunnugt, að fáir hafa grætt meira á undanförnum árum heldur en byggingarfyrirtæki og fasteignabraskarar. Sá gróði er kreistur út úr fólki, sem til að losna úr klóm leiguokraranna stritar myrkranna í milli við að eignast þak yfir höfuðið. Trúlega er hér í raun um að ræða hærri heildarupphæðir arðránsgróða heldur en í leigusvindlinu; þótt þar sé okrið á enn hærra stigi, verður heildargróði borgarastéttarinnar meiri af sölu íbúða en leigu.

Í stað einhliða leigjendasamtaka þarf því alhliða samtök sem berjast gegn húsnæðissvindli auðvaldsins á öllum vígstöðvum. Barátta fyrir réttindum leigjenda hlyti þó mjög að standa í fyrirrúmi.

Áherslu þyrfti m.a. að leggja á eftirfarandi atriði:

1. Sett verði húsaleigulöggjöf sem sé meira en pappírsgagn.
2. Greidd húsaleiga verði frádráttarbær til skatts.
3. Virkt eftirlit verði haft jafnt með leigusölum sem fasteignabröskurum og byggingarfyrirtækjum.
4. Svindlstarfsemi svokallaðra húsaleigumiðstöðva verði stöðvuð.
5. Notkun leigusamningseyðublaðs Húseigendafélags Reykjavíkur verði bönnuð. Í stað þess komi lögskipað samningsform þar sem réttindi leigjenda verði tryggð eftir föngum, og þá í samræmi við herta húsaleigulöggjöf.
6. Húsnæðisliður vísitölu framfærslukostnaðar verði reiknaður af einhverju viti, en eins og nú er, telst hann aðeins 1/10 hluti framfærslukostnaðarins.
7. Ríki og sveitarfélög standi fyrir byggingu húsnæðis í stórum stíl, sem leigt verði út á kostnaðarverði.

Með því að takmarka baráttuna ekki við leigjendur eina, næðist margfalt breiðari grundvöllur til að standa á. Megininntak baráttunnar væri samstaða verkafólks og þeirra er samstöðu eiga með verkalýðsstéttinni gegn húsnæðissvindli borgaranna. Jafnframt yrði það haft að leiðarljósi, að t.d. bygging leiguhúsnæðis á vegum hins opinbera er ekki endanleg lausn, því slíkt húsnæði yrði byggt af byggingarfyrirtækjum kapitalistanna eins og í öðrum auðvaldslöndum sem farið hafa inn á þessa braut. Félagsskapur af þeirri gerð sem hér hefur verið lýst, hlyti að leiða til aukinnar vitundar um að frumskilyrði endanlegrar lausnar húsnæðismálanna er að allt þjóðfélagslegt vald komist í hendur verkalýðsins. Baráttuvettvangur á sviði húsnæðismála yrði þá einn af mörgum í voldugri baráttufylkingu verkalýðsstéttarinnar.

-/Ol, JRS

# Baráttan milli risaveldanna:

# Uppspretta nýrrar heimsstyrjaldar!

Það er afstaða marxista-lenínista að baráttan milli risaveldanna sé ógnun við frið í heiminum og hún muni fyrr eða síðar leiða til uppskiptastríðs milli þeirra. Evrópa er keppikefli risaveldanna, og samkeppni þeirra ógnar sjálfstæði evrópuríkja og rétti þeirra til sjálfsákvörðunar. Í eftirfarandi grein verður reynt að varpa ljósi á stríðsundirbúning risaveldanna og kraftahlutföllin milli þeirra. Greinin er byggð á efni frá Klassekampen, málgagni AKPm-l í Noregi.

## "Mikill órói undir himninum"

Chou-En-lai sagði á fjórða þjóðþingi Kína í janúar s.l.: "Núverandi ástand alþjóðamála einkennist af mikilli ólgu undir himnunum. Risaveldin berjast. Þau eru uppspretta nýrrar heimsstyrjaldar. Í dag vaxa bæði forsendurnar fyrir byltingu og stríði." Hvað þýðir það, þegar talað er um "mikla ólgu undir himninum?" Á síðustu árum hafa m.a. eftirfarandi atburðir átt sér stað:

Árásarstríð Indlands gegn Pakistan, valdaránið í Chile, Parísarsáttmálinn um Víetnam - USA bíður ósigur. Októberstríðið fyrir botni Miðjarðarhafs - risaveldin geta ekki stjórnað gangi mála þar. Egyptaland brýtur í bága við vilja Sovétríkjanna. Arabaríkin setja olíusölubann á Bandaríkin. Frelsisbaráttan í nýlendum portúgala vinnur sigur, fasistastjórnin fellur í Portúgal. Fasistastjórnin í Grikklandi fellur og áhrif Bandaríkjanna minnka þar. Kýpurdeilan leiðir til stríðs þar sem risaveldin reyna árangurslaust að ráða skipan mála. Indland innlimar Sikkim og fremur valdarán í Kasmír. Byltingin vinnur fullan sigur í Indókína. Þríðji heimurinn kemur fram sem æ sterkara afl á alþjóðavettvangi og sameinast um baráttu fyrir að ráða eigin hráefnum og efnahag. Fasískt valdarán á Indlandi þar sem Sovétríkin standa á bak við. Þannig mætti lengi telja. En hvað sýnir þetta? Fyrst og fremst að heimsvaldastefnan stendur frammi fyrir kreppu, sem grípur um sig á æ fleiri sviðum. Breytingar eiga sér stað örar og örar. Allar grundvallarmótsetningar heimsins skerpast ört. Risaveldin eiga í baráttu sín á milli um allan heim. Þegar annað risaveldið lendir í erfiðleikum með "áhrifasvæði sitt" kemur hitt risaveldið og reynir að auka áhrif sín. 1968 gat sósíalheimsvaldastefnan hertekið Tékkóslóvakíu án þess að Bandaríkin eða Natő skiptu sér af því. Árið áður stóðu Bandaríkin (CIA) að baki valdaráni fasista á Grikklandi án þess að Sovétheimsvaldasinnarnir skiptu sér af því. En í dag? Þegar stríðið um Kýpur brýst út, blossar upp pólitísk spenna um allan heim, sökum tilrauna risaveldanna til að græða á ástandinu, hvort á annars kostnað. Þessi þróun mun fyrr eða síðar leiða til styrjaldar milli risaveldanna. Það er barátta þeirra sem getur leitt til þess að atburðir á einum stað í heiminum hafi áhrif á gjörvallt heimsástandið. Stríð milli þeirra verður um leið heimsstyrjöld.

## Af risaveldunum tveimur er það USA sem missir fótfestuna stöðugt

Eftir seinni heimsstyrjöldina voru Bandaríkin sigurvegararnir meðal heimsvaldaríkjanna. Einokunarauðvald Bandaríkjanna færði sér ástandið vel í nýt: Það reyndi að taka yfir stjórn efnahags landa V-Evrópu. Sovétríkin og Kína voru umkringd af óteljandi herstöðvum, og USA-heimsvaldastefnan útnefndi sjálfa sig lögreglu og dómara í málum Asíu, Suður-Ameríku og Miðausturlanda. Þetta gerði bandarísku heimsvaldastefnuna að sterkasta kúgara og arðræningja sem heimurinn hafði enn séð. En marxistar-lenínistar sem þekkja lögmál auðvaldsþróunarinnar gátu strax séð að USA myndi ekki sitja í þessu sæti lengi. Stalín benti á strax um 1950 að sökum ójafnrar þróunar auðvaldslanda á tímabili heimsvaldastefnunnar myndu auðvaldslönd V-Evrópu og Japan o. fl. rífa sig undan oki bandarísku heimsvaldastefnunnar og tilraunum hennar til að gera þau háð sér, og stefna inn á farveg óháðrar þróunar. Maó Tse-tung benti á, að þótt bandaríska heimsvaldastefnan væri sterk í dag, gæti það ekki varað. Bandaríkin væru risi á brauðfótum. Og hvers vegna? Vegna þess að þau byggðu veldi sitt á kúgun og arðráni og myndu því mæta andspyrnu um heim allan. Og þannig hafa málin þróast. Til viðbótar því hefur bandaríska heimsvaldastefnan mætt nýjum hættulegum andstæðingi: Sovétríkjunum. Eftir valdatöku borgaranna í Sovétríkjunum hefur hið unga risaveldi orðið í andstöðu við hagsmuni Bandaríkjanna á æ fleiri sviðum. Tökum nokkur dæmi um hvernig USA-heimsvaldastefnan missir fótfestuna stöðugt og verður að láta undan síga. Bandaríkin töpuðu í stríðinu gegn Kína 1949, gegn Kóreu 1950-53, gegn alþýðu Indókína undanfarin ár. Tilraunir bandarísku heimsvaldastefnunnar til að slá hring um Kína og einangra landið hafa mistekist. Indland sem áður var áhrifasvæði bandarísku heimsvaldastefnunnar er í dag stjórnað af sósíalheimsvaldastefnunni. Vestur-Evrópa er ekki lengur samstæð heild sem bandaríska heimsvaldastefnan stjórnar. Þriðji heimurinn greiðir bandarísku heimsvaldastefnunni hvert höggið á fætur öðru.. En bandaríska heimsvaldastefnan er enn hættulegt stórveldi þó að barátta alþýðunnar um heim allan hafi slegið úr henni nokkrar tennur. Það er enn annar tveggja stærstu kúgara heimsins en það er ekki vaxandi heimsvaldaríki í dag.

## Sovétríkin - ungt og vaxandi risaveldi

Í bók sinni, Heimsvaldastefnan..., sýnir Lenín hvernig grundvöllur fyrri heimsstyrjaldarinnar var hin ójafna þróun hinna tveggja heimsvaldablokka England/Frakkland og Þýskaland. Hann sýndi hvernig efnahagsvöxtur Þýskalands færði stríðið nær og nær sem lausn á kreppu heimsvaldastefnunnar, og að Þýskaland, vaxandi heimsvaldaríki varð til að hleypa stríðinu af stað.

Í dag bera Sovétríkin flest sömu einkenni og Þýskaland hafði fyrir 1914 og 1940, nema í miklu stærri mæli. Við skulum líta á nokkur dæmi til sönnunar því, að Sovétríkin eru vaxandi risaveldi:

1. Þau heljartök sem Sovétríkin hafa á löndum í Comecon og Mongólíu eru miklu sterkari en þau sem Bandaríkin hafa á Vestur-Evrópu. Það var bundinn endi á allar tilraunir þessara landa til að taka sjálfstæða stefnu með innrásinni í Tékkóslóvakíu 1968. Síðan þá hafa Sovétríkin styrkt stjórn sína á Comecon og Varsjárbandalaginu, og í raun byggt upp kerfi til að kúga þessar þjóðir undir hagsmuni sína, í þeim mæli, að annað eins hefur heimurinn aldrei séð fyrr. Þau heljartök sem Hitlersfasisminn hafði á Stór-Þýskalandi fyrir síðasta stríð kemst ekki í hálfkvisti við tök Sovétríkjanna á leppríkjum sínum.

2. Meðan Bandaríkin eiga í erfiðleikum með að viðhalda veldi sínu í stórum hlutum heimsins, styrkja Sovétríkin stöðugt áhrif sín á hernaðarlega mikilvægum stöðum í heiminum. Skýrasta dæmið um þetta er framgangur sósíalheimsvaldastefnunnar á Indlandsskaga: Bangla Desh, Indland. Með stuðningi Sovétríkjanna réðist Indland gegn Pakistan og limaði landið í sundur. Í dag ríkir fasismi bæði í Indlandi og Bangla Desh, en Sovétmenn kalla þessi ríki "lýðræðisríki," og eini flokkur Indlands, utan Kongressflokksins, sem styður fasismann þar, er hinn moskvusinnaði Kommúnistaflokkur landsins. Þegar Indland innlimaði Kasmír og Sikkim, voru sósíalheimsvaldasinnarnir ekkert að fela það, að þeir stóðu að baki því og það þjónaði þeirra hagsmunum.

Í dag eru Bandaríkin og Sovétríkin stærstu útflutningsaðiljar heimsins á fasisma. Bandaríkin komu á fasisma t.d. í Chile og S.-Kóreu, en Sovétríkin eru ábyrg fyrir fasismanum á Indlandi. Á þessu sviði eru Sovétmenn í vexti meðan fasískar leppstjórnir Bandaríkjanna hafa fallið hver á fætur annarri (Grikkland, S-Víetnam).

3. Á meðan Bandaríkin berjast hatrammlega fyrir að viðhalda áhrifum sínum og fjárfestingum í V-Evrópu eru áhrif og fjárfestingar Sovétríkjanna stöðugt að færast í vöxt. Sovétríkin notfæra sér þannig hina djúpu kreppu í V-Evrópu til að ná auknum pólitískum og efnahagslegum ítökum þar. Við þetta verk sitt hefur sósíalheimsvaldastefnan notað hjálpartæki, sem fá heimsvaldalönd hafa áður haft: Það er blokk endurskoðunarflokkanna, sumir þeirra mjög stórir, sem starfa sem pólitískir áróðursmenn fyrir þá, eins og í Portúgal, Ítalíu, Frakklandi og Danmörku, svo að dæmi séu nefnd. Aðrir flokkar sem líka starfa sem tæki sósíalheimsvaldastefnunnar eru flokkar á borð við Alþýðubandalagið hér á Íslandi, því þó að þeir standi ekki og sitji eins og sósíalheimsvaldasinnarnir vilja, þá halda þeir fram kenningum sósíalheimsvaldastefnunnar um útþurrkun stéttabaráttunnar og reyna að teyma verkalýðinn inn á ópólitíska braut með lýðskrumi um frið í heiminum. Það eru leiðtogar þessara flokka sem starfa munu sem fimmta herdeild fyrir sósíalfasismann í baráttu risaveldanna um yfirráðin yfir Evrópu.

4. Heimsvaldaefnahagskerfi fylgja gífurlegar mótsetningar sem erfitt er fyrir viðkomandi heimsvaldaríki að leysa úr. En Sovétríkin reyna að leysa þær með sömu ráðum og Hitler á sínum tíma: Með útþenslu og árásarstefnu og með því að virkja þjóðarframleiðsluna í hernaðarþágu. Þrátt fyrir að heildarþjóðarframleiðsla Sovétríkjanna sé minni en Bandaríkjanna eru útgjöld Sovétríkjanna til hermála meiri en Bandaríkjanna. Á síðustu 10 árum hafa nýju sarirnir í Kreml byggt upp meira herveldi en mestu hernaðarsinnar keisara-rússlands létu sig dreyma um. Sovétríkin hafa byggt upp gífurlegt herveldi í Mið-Evrópu, við landamæri V-Þýskalands. Herliðið er í stöðugri þjálfun og er fært um að ráðast inn í V-Þýskaland með styttri fyrirvara og af meiri þunga en dæmi eru um í hernaðarsögunni. Sovéski flotinn er í dag stærstur í heiminum - á öllum höfum heimsins. S.l. vor voru flotaæfingar á vegum Sovétríkjanna, Okean 75, þar sem samtímis voru flotaæfingar á öllum heimshöfunum. Þessar æfingar sýndu að Sovétríkin eru í dag fær um að eyðileggja allar samgöngur og hráefnisflutninga á sjó milli Bandaríkjanna og V-Evrópu. Mesti flotastyrkurinn er umhverfis Evrópu.

5. Bandaríska heimsvaldastefnan á í erfiðleikum með að færa út af fullum krafti heimsvaldapólitík sína. Innan þröngra ramma hins borgaralega lýðræðis, á bandaríska heimsvaldastefnan í höggi við andstöðu frá verkalýð og vinnandi alþýðu Bandaríkjanna. Mikil andstaða er innan Bandaríkjanna gegn fasískum aðgerðum bandarísku heimsvaldastefnunnar, eins og sjá má skýrt á starfi víetnamhreyfingarinnar þar. En í Sovétríkjunum er í dag ríkjandi fasismi, þar sem öll andstaða við heimsvaldastefnu ríkisins er barin niður. Fasíska toppklíkan í Kreml hefur í dag alla möguleika á að færa út árásar- og útþenslustefnu sína án þess að andstaða innan ríkisins sé fær um að koma í veg fyrir það. Þetta hefur Sovét-afturhaldið fram yfir kollega sína í Washington. Í stuttu máli: Í dag er það hættulegt fyrir byltingarsinna og and-heimsvaldasinna að líta fram hjá þeim einkennum Sovétríkjanna, sem gera þau að "ungu, vaxandi, heimsvaldasinnuðu stórveldi". Slíkt stórveldi getur hleypt af stað nýrri heimsstyrjöld.


Sovéskir skriðdrekar á æfingu. Í dag er hernaðarstyrkur Sovétríkjanna meiri en hernaðarstyrkur Bandaríkjanna og NATO. Gífurlegt magn sovéskra skriðdreka er staðsett í A-Þýskalandi, tilbúið til árásar gegn V-Evrópu.

## Evrópa í dag.

Tvær heimsstyrjaldir hafa verið háðar í Evrópu. Hver er orsök þess að Evrópa hefur verið vettvangur heimsstyrjaldanna, en ekki t.d. Afríka eða Asía? Í Evrópu er þróaðasti markaður í heimi. Bandaríkin hafa þar meira en þriðjung allra sinna fjárfestinga. Stór hluti iðnaðar heimsins og tækni er í Evrópu. Hún hefur jafnframt menntaðan og hæfasta vinnukraft heimsins. Án Evrópu væri bandaríska heimsvaldastefnan ekkert á við það sem hún er í dag. Með því að ráða Evrópu gæti sósíalheimsvaldastefnan orðið næstum "allt". Sagan kennir okkur að Evrópa er eins og stórt kjötstykki sem heimsvaldalöndin bítast um hvað eftir annað. Í dag eru Sovétríkin og Bandaríkin stærstu heimsvaldaríkin og höfuð-kúgarar og arðræningjar í heiminum. Í dag eru það þau, sem slást um Evrópu. Þess vegna er hættan á heimsstyrjöld mest bundin Evrópu.

## Tímaskeið byltingarinnar

Við lifum í dag á byltingasinnaðasta skeiði sögunnar. Baráttan gegn risaveldunum eykst dag frá degi, og verkalýður heimsvaldalandanna myndar bandalag við alþýðu þriðja heimsins í baráttunni gegn sameiginlegum óvini. Forsendur stríðs og byltingar vaxa fram hlið við hlið. Annað hvort verður heimsstyrjöld afstýrt með byltingu eða henni verður snúið upp í byltingu.

Í dag er einn mikilsverðasti þáttur byltingarbaráttunnar í sérhverju landi baráttan gegn stríðsfyrirætlunum risaveldanna og afhjúpun á þeim sem á einn eða annan hátt styðja annað hvort risaveldið gegn hagsmunum yfirgnæfandi meirihluta mannkynsins.

Ól þýddi og endursagði úr Klassekampen nr. 25, 1975.


Meira en 30% fjárfestinga Bandaríkjanna erlendis eru í Evrópu, og fremur er útlit fyrir að þær vaxi en hitt. Það er því engin ástæða til að vera hissa á því að næstum 50% hernaðar"aðstoðar" Bandaríkjanna fer til landa vestur Evrópu. Mesti herafli Bandaríkjanna, utan landsins sjálfs, er staðsettur í Evrópu. Myndin sýnir hluta 6. flotans á Miðjarðarhafinu. Staðsetning hans gerir hann að árásartæki jafnt í Mið-Austurlöndum sem í Evrópu komi til stríðs.

Framhald af baksíðu.

# Vietnamnefndin

bandarísku NATO-herstöðinni á Keflavíkurflugvelli. Baráttan gegn hernum og NATO hefur fram til þessa einkennst mjög af upphlaupum fyrir kosningar og verið eins konar kosningaþjónusta fyrir Alþýðubandalagið og fleiri vinstriflokka í landinu. Undantekning frá þessu er það starf sem VN hefur unnið á þessu sviði. VN hefur ætíð barist hart gegn öllum tilraunum til að skilja á milli baráttunnar gegn NATO og gegn hernum, en þessi barátta er að sjálfsögðu samfléttuð, því að ætla að berjast gegn NATO-her án þess að berjast gegn NATO er óframkvæmanlegt og slíkar tilraunir geta aldrei orðið annað en skopmyndir af sjálfu sér. Það er nauðsynlegt að andheimsvaldasinnuð fylking taki að sér leiðsögn í þessari baráttu sem allra fyrst, ekki síst nú þegar þær raddir heyrast að verið sé að reyna að kljúfa þessa hreyfingu með því að koma á einhvers konar hægra samstarfi í baráttunni gegn hernum. Hér væri eins og áður aðeins um kosningaundirbúning að ræða og þessi samstarfsnefnd myndi lognast út af strax að kosningum loknum. Í öðru lagi er barátta gegn stríðsundirbúningi risaveldanna. Þessi barátta er ákaflega mikilvæg og algerlega nauðsynleg ef koma á í veg fyrir nýja heimsstyrjöld. Snar þáttur í þessari baráttu er barátta fyrir 200 mílna landhelgi, þ.e.a.s. rétti þjóða til að nýta ekki aðeins fiskimið sín og auðævi á hafsbotni, heldur einnig til að ráða algerlega siglingum á þessu svæði. Þetta er nauðsynlegt til að koma í veg fyrir að heimsvaldasinnarnir geti siglt herskipum sínum upp að landsteinum strandríkjanna og ógnað þeim þannig til hlýðni. Íslenskar ríkisstjórnir framtil þessa hafa ekki tekið undir þessa kröfu ríkja þriðja heimsins og það er því eitt af verkefnum okkar að berjast fyrir breyttri afstöðu í þessu máli.

Í þriðja lagi er barátta gegn íhlutunarstefnu heimsvaldalandanna um innanríkismál þeirra ríkja þriðja heimsins sem sjálfstæð eiga að kallast. Hér er um að ræða baráttu gegn atvikum eins og í Chile og mörgum öðrum Ameríku ríkjum, afskiptum rússa og indverja af Pakistan og innrásinni í Tékkóslóvakíu, þó það land teljist ekki til þriðja heimsins.

Í fjórða lagi er svo stuðningur við lýðræðisöfl og baráttu þeirra annars staðar í heiminum eins og til dæmis á Spáni, í Portúgal og alls staðar annars staðar þar sem lýðræðið er fótum troðið í heiminum.

Það er von okkar að fyrirhuguð ráðstefna VN í október megi gefa sem mestan árangur og því markmiði verður aðeins náð með því að vera sífellt á varðbergi gegn öllum sundrungaröflum og sundrungarhugmyndum, ekki síst trotskistum, en bæði víetnamar og palestínumenn kenna okkur að trotskistar eru fjandsmenn þjóðfrelsisaflanna.

SAMEINUMST Í BARÁTTUNNI GEGN HEIMSVALDASTEFNUNNI.

## ÚR RAUÐU PRESSUNNI

# Portúgal : Sovétríkin seilast til aukinna áhrifa

Sá sem kemur til Lissabon í þeirri trú, að þar sé verið "að fara braut sósíalismans," kemst fljótlega á aðra skoðum. Í Portúgal er öllum verkföllum og öðrum mótmælaaðgerðum sem beint er gegn stjórnvöldum mætt með fullri hörku. MFA, herjahreyfingin, notar öryggislögreglu sína Copcon, óspart til þess að brjóta á bak allar mótmælaaðgerðir jafnt með hefðbundnum lögregluaðferðum sem og sérstökum, t.d. ærandi leifturljósum og hávaða sem valda heyrnarskaða og jafnvel flogaköstum. Slíkum aðferðum var einmitt beitt fyrir utan Caxias fangelsið í júní sl., en þar sitja nú hópar pólitískra fanga, s.s. verkalýðssinnar, marx-lenínistar og aðrir forystumenn vinstri hópa í landinu. Endurskoðunarsinnarnir í PCP, "kommúnistaflokki Portúgals", afhjúpa sig betur með hverjum deginum sem sósíalfasistar, jafnhliða því sem sósíalheimsvaldastefna Moskvufasistanna þröngvar sér jafnt og þétt inn í efnahags- og stjórnmálalega þróun landsins.
Kapítalisminn stingur í augu sem aldrei fyrr.
T.d. hefur leiga fyrir mannsæmandi íbúðir hækkað svo í verði að nánast ógjörningur er fyrir almenna verkalýðsfjölskyldu að greiða þann kostnað. Fátækrahverfin, sem rúmuðu um 10% íbúa Lissabon fyrir valdatöku MFA 25. apríl í fyrra, standa enn óhögguð og fara frekar vaxandi og versnandi frá því þá.

### Stjórnmál strætisins

Nú mætti ef til vill spyrja, hvort ekkert hafi þá breyst frá því 25. apríl í fyrra? Jú, hið athyglisverðasta og reyndar það eðlilegasta sem gerðist var það að stjórnmálaumræður bókstaflega flæddu um göturnar. "Veggblöð og pólitískur áróður flaut um allt og veggblöð voru skrifuð í þúsundatali, flest skrifuð af verkamönnum í verkföllum, sem á þann eina hátt gátu vakið athygli á baráttu sinni, svo og vinstrihópum.
Næstum hvern dag var og er efnt til mótmælaaðgerða. Stjórnmálin eru á strætunum eftir 48 ára kúgun og ógnarstjórn undir járnhæl fasismans. Það fólk sem fyrrum vart mátti mæla nema leggja líf sitt og limi að veði, fékk nú að því það hélt, loksins tækifæri til tjáningarfrelsis.

### Sósíalfasískar aðgerðir

En götumyndin, mótmælaaðgerðirnar og umræðurnar, eru aðeins yfirborðsmynd. Hvað er raunverulega að gerast? Svarið er einfalt: Hinir nýju valdhafar beita óspart sósíalfasískum aðferðum, þannig að stöðugt fleiri beinar og afhjúpandi árásir á verkalýðstéttina eiga sér stað, skreyttar fölskum fjöðrum "sósíalískra" vígorða. Það er ekki síst hinn endurskoðunarsinnaði flokkur PCP sem styður þær aðfarir

### Raunveruleg völd hjá herjahreyfingunni, MFA

Ríkið, hið pólitíska vald í Portúgal, er í höndum herjahreyfingarinnar, MFA, - eða " æðsta byltingarráðsins" í MFA. Í Portúgal ríkir því hernaðareinræði. Stjórnarskrárþingið (þing til þess að setja landi stjórnarskrá) sem kosið var til í vor, verður því að vera algjörlega háð starfsreglum og vilja MFA. Skrítið þing það, - "að semja lög" og fá ekki að ræða pólitíkina. Stjórnarskráin átti að vera tilbúin, samin, í september, og þá var líka meiningin að efna til kosninga og kjósa þjóðþing. En stjórnarskráin verður varla tilbúin enda hafði MFA hvort sem var áskilið sér rétt til drottnunar í a.m.k. 3-5 ár. "Sambandsstjórnin" sem reyndar er fallin var að vísu skipuð nokkrum óbreyttum ráðherrum, en það er, eins og kom á daginn, MFA sem fer með síðasta orðið hvað svo sem á gengur.

### Alræði hersins

MFA hefur öll einkenni herstjórnar, eins og títt er um herforingjastjórnir. MFA krefst skilyrðislausrar virðingar fyrir stofnunum hersins. MFA krefst reglu og heraga. Hinir 200-300 offíserar sem sitja herráð MFA túlka "þjóðarviljann", óskir þjóðarinnar o.s.frv." MFA freistar þess að líta á sig sem hernaðarlega úttekt og að hreyfingin standi utar og ofar öllum stéttum Portúgals.



COPCON segjast aðeins "skjóta út í loftið" þegar þeir séu að dreifa mótmælaaðgerðum. En margir særast. Kúlurnar hafa hitt þá í fætur og bol. (Mynd: AFAP - Associacao das Familias dos antifascistas Presos)

### Hinir þrír hópar innan MFA

En MFA er svo sannarlega ekki nein hreyfing "stéttleysis", þvert á móti á sér stað harðvítug barátta mismunandi hópa borgarastéttarinnar innan MFA. Hér er um þrjár megin klíkur að ræða: Sú sem berst fyrir "samruna við vestur" og er það einkum vegna hagsmuna bandarísku heimsvaldastefnunnar, sú sem óskar "samvinnu" við sósíalheimsvaldablokkina í austri og sú sem jafnframt er ósamkvæmust sjálfri sér og telur að Portúgal eigi samleið með þriðja heiminum gegn stórveldum. Milli þessara þriggja póla er stefnan þó óviss og ruglingsleg. Einslags málamiðlunarbræðingur verður því oft ofaná. Þannig vill Portúgal vera áfram í NATO, jafnhliða því sem óskað er eftir sjálfstæðri hernaðarlegri stöðu innan bandalagsins svipað og staða Rúmeníu innan Varsjárbandalagsins.
Ekkert erlent auðmagn hefur enn verið þjóðnýtt, þvert á móti hefur bæði vestrænu og austrænu fjármagni verið boðið uppá vildarkjör til arðráns á portúgölskum verkalýð.
Síðustu þrjá mánuðina hefur þriðjaheims klíkan innan MFA verið hvað sterkust með þá Melo Antunes, utanríkisráðherra, Vicler Crespo, fyrrum yfirmann í Mosambique og Otelo Seraivo de Carvalho hinn hernaðarlega stórjaxl landsins í broddi fylkingar. Hversu lengi það varir er óvíst, en síðustu fregnir herma þó að valdabaráttan innan MFA sé enn að skerpast.

### Risaveldin berjast um Portúgal

Portúgal er hernaðarlega mjög þýðingarmikið. Öllum siglingum um stóran hluta suður-Atlantshafsins og ekki síst innsiglingu á Miðjarðarhafið er hægt að fylgjast með frá portúgölsku yfirráðasvæði. Á Asoreyjum, mitt í Atlantshafi, hafa Bandaríkin herstöð og þar eru einnig höfuðstöðvar NATO vegna suður-Atlantshafsins. Portúgal hefur því augljóslega mikla hernaðarlega þýðingu. Baráttan um ítök í Portúgal harðnar við það að landið er í Evrópu. Missi NATO og Bandaríkin af áhrifum sínum í landinu, hefur það ófyrirsjáanlegar afleiðingar fyrir valdahlutföllin í t.a.m. Miðjarðarhafslöndunum, Spáni og Ítalíu o.fl. Þess sjást að vísu ennþá engin merki að risaveldin hyggi á beina hernaðarlega íhlutun, en hins vegar beita þau óspart áhrifum sínum um innlenda pólitíkusa auk þess sem bæði CIA og KGB (bandaríska og sovéska leyniþjónustan) hafa hundruð njósnara starfandi í landinu.



Alvaro Cunhal, formaður P"C"P.

### Framrás sósíalheimsvaldastefnunnar

Það er augljóst að sósíalheimsvaldastefnan er í mikilli framrás í Portúgal. Fyrst og fremst er það vegna þess að landið er frekar veikur hlekkur í bandarísku heimsvaldastefnunni efnahagslega séð. Aðeins 12 % útflutningsverðmæta Portúgals og 8% innflutningsverðmæta landsins voru grundvölluð á viðskiptum við USA. Evrópa stendur mun sterkari að vígi, 60% af innflutningi landsins og 72% af útflutningi. Sósíalheimsvaldasinnarnir urðu hins vegar að byrja á núlli. Þeir eru hins vegar á góðri leið með að útvega sér þýðingarmikla drottnun á efnahagslífinu. Vegna kreppu hins vestræna kapitalisma, eiga vesturevrópa og USA um sárt að binda, þannig að um tiltölulega greiðan aðgang sósíalheimsvaldasinnanna inn í þá aðstöðu og það eftirlit sem vesturveldin áður höfðu , er að ræða. Augljósasta dæmi þessa er portúgölsku skipasmíðastöðvarnarnar, en þær eru hvað víðamesti hlekkurinn í framleiðslukerfi landsins. Tvær skipasmíðastöðvar eru þar stærstar og mestar: Lisnave og Setenave. Báðum þessum stöðvum var stjórnað af erlendu aðmagni. Lisnave aðallega af sænsku fjármagni gegnum Eriksbergfyrirtækið í Gautaborg, en vegna kreppunnar varð Eriksberg og sænska fjármagnið að draga sig út (Eriksberg fyrirtækið var nýlega þjóðnýtt í Svíðþjóð vegna þess að það var að "fara á hausinn").

Sósíalheimsvaldasinnarnir sáu sér þarna leik á borði og fjárfestu í portúgölskum skipasmíðaiðnaði. Nýttu þeir til þess eitt af leppríkjum sínum Pólland. Pólland lagði nefnilega fram kostaboð um að áðurnefndar verksmiðjur byggðu hvorki meira né minna en sjötíu, 70- smá og stór skip fyrir Pólland, þannig að nú hafa skipasmíðastöðvarnar ærið verk allt til ársins 1978. Jafnframt þessu er lykilaðstaða innan þessarar framleiðslugreinar komin í hendurnar á sósíalheimsvaldasinnunum og háð fjármagnsinnflutningi frá þeim. Hér er því um veigamikinn brúarsporð fyrir Brésnef inn í portúgalskt efnahagslíf að ræða.
Póllands-samningurinn er til þessa sá stærsti, en fleiri bíða ugglaust á næsta leiti, eða eru í "athugun" eins og það heitir. Þetta á jafnt við um alla austurblokkina: Austur-Þýskaland, Júgóslavíu, Búlgaríu, Ungverjaland og Tékkóslóvakíu. Viðskipti þessara landa munu þegar á þessu ári ná hátt upp. Að því er varðar sjálft höfuðbólið, Sovétríkin, sem hingað til hafa haldið sig að tjaldabaki af stjórnlistarlegum ástæðum, þá er þess ekki langt að bíða að þau undirbjóði alla hugsanlega samkeppnisaðila í portúgalsviðskiptum. Því er jafnvel haldið fram að í ár muni Portúgal flytja fjórum sinnum meira inn til landsins frá Sovétríkjunum en nemur útflutningi Portúgals til Rússlands. En hvað geta Rússar selt portúgölum? Jú, í fyrra haust voru það t.d. ódýrar sardínur, einmitt, þegar portúgalskir sjó-

FRH. á bls. 2

# Öryggisráðstefnan i Helsinki: Hver ógnar öryggi Evrópu ?

Stjórnmálamenn frá öllum ríkjum Evrópu, að Albaníu undanskilinni hafa nýlokið undirritun "öryggissáttmála" evrópuþjóða. Sáttmálinn var undirritaður að lokinni "öryggismálaráðstefnunni" í Helsinki. Mættir til leiks voru allir helstu leiðtogar vesturlanda ásamt fulltrúum endurskoðunarríkjanna í A-Evrópu með Brésnéf í broddi fylkingar. Nú hljóta margar spurningar að vakna um hinn raunverulega tilgang þessa tilstands - hvers er að vænta af undirrituninni. Spurningarnar eiga fullan rétt á sér, því að meðal þeirra sem undirrituðu voru Ford bandaríkjaforseti og Brésnéfkremlherra - mennirnir sem bera ábyrgð á taumlausum yfirgangi risaveldanna gagnvart minni þjóðum. Hvernig getur böðull Tékkóslóvakíu orðið postuli öryggis? Og hverra öryggi ber bandaríkjaforseti fyrir brjósti?

Eins og fyrr segir þá tóku albanir ekki þátt í ráðstefnunni, og það var ekki að ástæðulausu. Sem hið eina sósíalíska ríki í Evrópu berst Albanía gegn og afhjúpar miskunnarlaust gerðir risaveldanna, USA og Sovét. Afstaða albana til "öryggisráðstefnunnar" er skýr. Stéttabaráttan birtir hér hluta úr leiðara "Zeri i popullit" (29.7.), málgagns miðstjórnar Flokks vinnunnar í Albaníu.



Fulltrúar risaveldanna reyna að fela yfirgang og ofbeldi sitt með brosum og fleðulátum.




"Helsinkiráðstefnan leiðir aðeins af sér hljómfagrar yfirlýsingar og falskar vonir. Það er langt síðan við vöruðum við því hvernig myndi fara, yfirlýsing ríkisstjórnar Alþýðulýðveldisins Albaníu er skýr. Þar er bent á að risaveldin tvö muni reyna að notfæra sér öryggismálaráðstefnuna sem vettvang til að útbreiða frjálslyndis-friðaranda sinn, sem staðhæfir að öll vandamál heimsins í dag, alþjóðlegir stéttaárekstrar sem annað, sé hægt að leysa með "friðsamlegum" viðræðum og "persónulegum tengslum." Ennfremur er því haldið fram að núverandi forystumenn USA og Sovétríkjanna séu menn friðarins og vinni fyrir friðinn.

Helsinkiráðstefnan er í höndunum á USA og Sovét, hinir þátttakendurnir fá að greiða kostnaðinn. Þau skjöl sem þar eru undirrituð endurspegla ekki hið minnsta hagsmuni, vonir og áhyggjur alþýðunnar í Evrópu. Það liggur ljóst fyrir að vonir þeirra sem héldu að ráðstefnan myndi auka sjálfstæði sumra ríkja sem eru undir yfirráðum og áhrifum Sovétríkjanna og Bandaríkjanna, og hvetja sum önnur ríki til meiri sjálfstæðis, hafa reynst tálvonir. Staðreyndir sýna að áhrif annarra þátttakenda á undirbúning ráðstefnunnar og mótun tillagna og tilgangs hafa verið lítil, og hlutverk þeirra minniháttar. Risaveldin tvö þinguðu saman og ákváðu gang ráðstefnunnar, ekki aðeins án vitundar hinna, heldur einnig í andstöðu við hagsmuni þeirra. Endanleg dagsetning ráðstefnunnar var jafnvel ekki ákveðin fyrr en Gromyko og Kissinger ræddust við í Genf.

Hinir áköfu áróðursmenn fyrir öryggi Evrópu tala nú heilmikið um að banna yfirgang gegn öllum ríkjum, og að forðast skuli vopnabrúk. Með áróðrinum fylgja hinar "alvöruþrungnu yfirlýsingar" Fords og "drengskaparorð" Brésnéfs sem trygging. En getur alþýða Evrópu byggt öryggi sitt á þvílíku masi? Hún hefur þjáðst of mikið undan árásum heimsvaldasinna og sviksemi risaveldanna til þess að hún láti blekkjast af pappírsrusli og lýðskrums-samningum.
Hitler undirritaði tugi sáttmála þar sem hann lofaði að hann myndi aldrei sýna Frakklandi, Belgíu og Hollandi yfirgang. Og með tárin í augunum sór hann, að lokinni töku Súdetahéraðanna, að hann myndi aldrei snerta Tékkóslóvakíu hið minnsta. Allir vita hvað síðar gerðist. Brésnéf skrifaði einnig undir langt skjal í Bratislava tæpum mánuði áður en hann sendi skriðdrekana inn í Prag. Í skjalinu var farið hástemmdum orðum um andstöðu gegn vopnavaldi.

Bandaríkin hafa einnig lofað í óteljandi samningum að virða landamæri annarra ríkja og að forðast vopnavald. En þau blönduðu sér í málefni Grikklands, réðust á Kóreu, hernámu Víetnam, stigu á land í Líbanon, réðust inni í Dóminikanska Lýðveldið og börðust gegn kambódísku alþýðunni. Það eru bara þeir einföldu eða skammsýnu sem geta treyst á þessar fögru yfirlýsingar og friðarloforð heimsvaldasinnanna. Og það eru bara þeir sem binda vonir sínar við yfirlýsingar, allsherjarsamkomulag og falskt siðferði árásarseggjanna. En alþýðan trúir ekki á orðin tóm og hún lætur ekki blekkjast af lýðskrumi heimsvalda- og endurskoðunarsinna.

Hin svokallaða "detente" stefna sem USA-heimsvaldasinnarnir hafa svo hátt um er í raun framhald "kalda stríðsins", en í öðru formi. Hún er hin gamla ofbeldis og yfirgangsstefna - falin í brosum og vöggusöng."

# Á tiunda aldursári byltingarinnar: Hvað vilja Palestínumenn?



Á þröskuldi 11. aldursárs hinnar vopnuðu byltingar, líta Palestínumenn fullir vona fram á veg, ákveðnir í að halda hinni erfiðu baráttu sinni áfram, uns sigur vinnst. Liðið ár var góðæri fyrir palestínska alþýðu, en á því náðist verulegur árangur og áþreifanlegir sigrar unnust í þágu málstaðar þeirra. Kórónan á sigra Palestínumanna árið 1974 var atkvæðagreiðslan á 29. fundi Allsherjarnefndar Sameinuðu þjóðanna, en þar var ákveðið með 105 atkvæða meirihluta að bjóða PLO að taka þátt í umræðunum um Palestínuvandamálið á fullskipuðum fundi þess. Leiðtogi palestinsku byltingarinnar, Yasser Arafat, hafði hótanir síonista að engu og hélt til New York framhjá tálmunum haturs og óvildar. Að umræðum um Palestínu loknum, samþykkti Allsherjarnefnd SÞ réttmæta yfirlýsingu með 89 atkvæða meirihluta, þar sem þjóðleg réttindi palestinsku alþýðunnar eru viðurkennd. Í þessari viðurkenningu felst rétturinn til að snúa aftur til heimalandsins, Palestínu, að njóta sjálfsákvörðunar á ættjörð sinni og til að koma á fót sjálfstæðu þjóðríki, sem og rétturinn til að berjast fyrir lögmætum þjóðarrétti sínum með öllum ráðum, þar með talinni vopnaðri baráttu í sérhverri mynd. Þannig urðu tilraunir síonista og heimsvaldahringa, til að brennimerkja þjóðernisbaráttu Palestínumanna sem hermdarverk, að engu. Að auki viðurkenndi Allsherjarnefnd SÞ, PLO sem lögmætan fulltrúa palestinskrar alþýðu með miklum meirihluta, og veitti PLO varanlegan rétt til áheyrnar í SÞ og öllum nefndum þeirra. Með þessari alþjóðlegu viðurkenningu hefur PLO rutt öllum öðrum þjóðfrelsishreyfingum brautina, til þess að verða varanlegir áheyrnarmeðlimir Sameinuðu Þjóðanna.

Það var engin tilviljun, að daginn áður en Allsherjarnefnd SÞ ákvað að bjóða PLO að taka þátt í umræðunum um Palestínuvandamálið, var kynþáttastefnu-og nýlenduríkinu S-Afriku meinuð þátttaka í 29. fundi hennar. Að okkar hyggju er ákvörðun Allsherjarnefndar SÞ mikilvægur vísir þeirrar atburðaþróunar, sem endurspeglar upphafið að langri niðurleið Ísraels, samtímis því, sem hún markar framsækni Palestinumanna á þeirri braut, að endurheimta þjóðlegan rétt sinn í heimalandinu. Þessir atburðir hafa sérstaka þýðingu, því þetta er í fyrsta sinn síðan Palestina komst undir hervald síonista 1948, sem Allsherjarnefnd SÞ ræðir Palestinuvandamálið sem sérstakan dagskrárlið, en ekki sem þátt í deilum Araba og Ísraela, eða einfaldlega sem "flóttamanna"vandamál. Þó ber að harma það, að enn eru SÞ ófærar um að neyða Ísrael til að fara að alþjóðlegum vilja, en þetta atriði er afdrifaríkt fyrir stöðu þessara alþjóðasamtaka. Með tilliti til áframhaldandi brota Ísraels gegn öllum alþjóðlegum yfirlýsingum og samþykktum, verður það að nauðsyn fyrir SÞ og stofnanir þeirra, að gera þennan hefðbundna yfirtroðanda allra alþjóðlegra yfirlýsinga brottrækan og taka einnig til athugunar heppilegar aðgerðir til að neyða hann til að fara að alþjóðalögum.

Árið 1974 þjáðust lönd heimsvaldaherbúðanna - bandamenn síonísku fjandmannanna - af alvarlegum efnahagslegum og pólitískum kreppum, sem ollu því, að valdahlutföllin í heiminum snerust öflum þjóðfrelsishreyfinga heimsins, sem eru bandamenn palestinsku byltingarinnar, í vil. Þannig hefur félagsleg og efnahagsleg kreppa færst í aukana í síonista-ríkinu sem afleiðing Oktoberstyrjaldarinnar 1973 og sem fylginautur þess, að sionistaleiðtogar Ísraels þverskallast ekki við að halda áfram stríðspólitík sinni, árásarstefnu og útþenslu, og eyða geysilegum fjárfúlgum í vopnabúnað - meira en 5000 milljónum US-dollara síðan Oktoberstyrjöldin stóð 1973.

Sjálfstraust Palestinumanna hefur aukist í takt við vaxandi stuðning frá frelsishreyfingum heimsins við réttlátan málstað þeirra. Erfiðu árin kringum 1950 og 1960 eru liðin, þegar heimurinn olli okkur djúpum sársauka með því að gleyma Palestinumönnum og skilja þá eftir eina síns liðs, til að mæta þjáningum af örðugum lífsskilyrðum í úlfakreppu, þegar heimurinn lokaði augunum fyrir glæpum og samsærum síonísku óvinanna gagnvart óskum Palestinumanna og annarar arabískrar alþýðu. Sjálfstraust Palestinumanna er stórum aukið nú, þegar þeir horfa á síonísku óvinina aðþrengda í einangrun eftir að hið rétta andlit þeirra hafði verið afhjúpað - andlit kynþáttakúgunar, árásargirni og útþenslustefnu Ísraels, sem nærir hernaðarandann með sér og er verkfæri bandarískrar heimsvaldastefnu í Miðausturlöndum, í tilraun til þess að gera að engu vonir arabískrar alþýðu um frelsi, þjóðlegt og efnahagslegt sjálfstæði og félagslegar framfarir. Einangrun og örvænting síoníska óvinarins eykst, þegar þeir uppskera afraksturinn af árásarstefnu sinni, á meðan Palestinumenn njóta í vaxandi mæli mannlegrar samhyggju eftir því, sem stuðningsmönnum við rétt þeirra og málstað fjölgar með hverjum degi sem líður. Þeir eru ánægðir af því að þeir sjá að hin erfiða barátta þeirra hefur uppskorið stuðning hinnar miklu alþjóðlegu samfylkingar forvígismanna friðar, frelsis og réttlætis. Palestinumenn, sem hafa háð og heyja enn eina af erfiðustu baráttum heims, sökum illskeytni þeirra afla, sem hafa sameinast gegn þeim, æskja meiri stuðnings frá vinum sínum og bandamönnum í frelsishreyfingu heimsins.

Palestinska byltingin, sem sigrast hefur á illvígum samsærum, hefur fest sig í sessi og unnið mikla sigra. Vegna þessa er hún ákveðnari en nokkru sinni að halda baráttunni áfram í áratugi sem framundan eru, þar til réttindi Palestinumanna í heimalandinu hafa verið endurheimt. Palestinska byltingin byggir ákveðni sína á einurð smárrar þjóðar, sem hefur stælst í meira en fimmtíu ára langri baráttu gegn samsærum heimsvaldastefnunnar, zionismans og arabíska afturhaldsins.

Á árinu 1974 breiddist vopnuð barátta Palestinumanna út, fyrst og fremst með djörfum og víðtækum aðgerðum í öllum hlutum hinnar herteknu Palestinu. Þrátt fyrir allar tilraunir síonista til að kæfa baráttu Palestinumanna, festist hún í sessi, bæði hvað varðar eðli og umfang. Sömuleiðis hefur pólitíska baráttan styrkst með degi hverjum á herteknu svæðunum undir forystu palestinsku þjóðfylkingarinnar - stjórnmálahreyfingar PLO í hinni hernumdu Palestinu. Þjóðfylkingin nær sífellt betri árangri í leiðsögn fjöldans á herteknu svæðunum og við að skipuleggja andstöðuöflin gegn ísraelska hernámsliðinu á allan hugsanlegan hátt: með útbreiðslu áróðurspésa, skipulagningu verkfalla, kröfugangna o.s.frv. Á hinn bóginn halda hernámsyfirvöldin áfram að handtaka grunaða meðlimi palestinsku þjóðfylkingarinnar og gera þá útlæga með því að þvinga þá til að fara yfir landamærin til Libanon eða Jórdaníu, þvert gegn öllum alþjóða samþykktum og yfirlýsingum Hin umfangsmikla fjöldauppreisn, sem braust út hinn 13. nóvember á hernumdu svæðunum, daginn sem Yasser Arafat hélt hina söguleru ræðu sína í SÞ, hélst í meira en 10 daga. Hún var besta sönnunin fyrir styrk palestinsku þjóðfylkingarinnar og staðfestu palestinsku alþýðunnar á hernumdu svæðunum í að hrinda ísraelsku kúguninni eins fljótt og unnt er. Alþýðuuppreisnin sýndi einnig ákveðni palestinsku alþýðunnar á herteknu svæðunum að hafna jórdönsku Hashemite kúguninni og koma á fót sjálfstæðum palestinskum þjóðlegum yfirvöldum á ættjörð þeirra undir forystu PLO, eina lögmæta fulltrúa palestinsku þjóðarinnar. Þjáning palestinskrar alþýðu, sem býr í útlegð eða undir hernámi, felur ein sér í sér næringu fyrir palestinsku byltinguna og tryggingu fyrir því, að öll samsæri heimsvaldasinna, síonista og arabísks afturhalds verða yfirunnin.

Ísrael heldur daglegum árásum sínum á þorp í S-Líbanon áfram og einnig loftárásum á flóttamannabúðir Palestinumanna í Líbanon. Að auki heldur Ísrael áfram að styrkja herafla sinn að því marki, að vopnaflutningar Bandaríkjanna til Ísraels hafa næstum tæmt skriðdrekabirgðir og aðrar vopnabirgðir Bandaríkjanna, samkvæmt heimildum Pentagons. Á sama tíma hóta ísraelsmenn að hefja kjarnorkuárás, og öll verksummerki sýna, að síoníska forystan í Tel Aviv er raunverulega að íhuga það í fyllstu alvöru að reyna að brjóta af sér fjötra ríkjandi pólitískrar og efnahagslegrar kreppu með því að hefja nýtt árásarstríð gegn arabískri alþýðu.

Palestínumenn fara ekki fram á annað en að réttur þeirra verði staðfestur í yfirlýsingum SÞ og að þessum yfirlýsingum verði þegar í stað framfylgt að fullu. Enn halda síonistaklíkur því fram, að palestínumenn vilji koma af stað allsherjarslátrun gyðinga í Israel. Leiðtogi palestínsku alþýðunnar, Yasser Arafat, lýsti því yfir úr fundarstól SÞ þann 13. nóv. 1974, að palestínsku byltingarsinnarnir ætli sér að koma á fót sérstöku lýðræðisríki í Palestínu, þar sem gyðingar, kristnir og múhammeðstrúarmenn gætu lifað saman í friði, bróðurhug og jafnrétti. Hinn raunverulegi fjandmaður gyðinga í Israel og gyðinga um heimsbyggðina er síonísk forysta sem ræður ríkjum í Israel og heimshreyfingu síonista. Því síoníska forystan í Israel er sá aðili, sem fylkir gyðingum í Israel og annars staðar í heiminum til árásarstyrjaldar gegn palestínumönnum og arabískri alþýðu, til þess að þjóna heimsvaldasinnaðri útþenslupólitík sinni í þágu síonískra milljónamæringa og bandamanna þeirra - bandaríska fjármálaauðvaldsins. Það er síoníska forystan sem er að leiða gyðinga í Israel og annars staðar inn í blindgötu árásarstefnu og hernaðarlegrar ævintýramennsku.

Palestínskir byltingarsinnar rétta samt sem áður hönd friðar og bræðralags til gyðinga í Israel og annars staðar, svo þeir megi starfa saman að því að byggja nýja og blómstrandi Palestínu: lýðræðislega Palestínu þar sem allar myndir misréttis verða afnumdar, hvort sem þær eru trúarlegs eðlis, vegna kynþáttar eða hörundslitar.

Æðsti draumur palestínsku byltingarmannanna er að líta gyðinga í Israel og annars staðar í heiminum frjálsa undan hinni illskeyttu plágu síonismans sem skapar aðskilnað milli gyðinga og annarra manneskja, og fæðir af sér and-semitismann með öllum afleiðingum þess.

Israel sem grundvallast á kynþáttahatri, þar sem sérhver þjóðahópur fyrirlítur hina, þar sem misréttið er ekki takmarkað við palestínubúa, sem farið er með eins og þriðja flokks mannverur, teygir misréttið einnig yfir á austurlenska gyðinga. Israel samtímans er ekki takmark gyðinganna. Lausn ísraelsku gyðinganna felst í Palestínu mannúðarinnar, bróðurþelsins, jafnréttisins og friðarins - hinni lýðræðislegu Palestínu.

Þýtt úr Palestine - upplýsingarriti PLO - vol. 1, no. 1 janúar-febrúar 1975.

# Nýtt blað: PALESTÍNA

Nýtt blað er ber nafnið Palestína hefur hafið göngu sína. Eins og áskrifendur Stéttabaráttunnar er kunnugt um keypti Stéttabaráttan nokkurn hluta upplagsins til að styrkja útgáfuna og sendi áskrifendum sínum. Blaðið er gefið út af undirbúningshópi að stofnun íslenskrar palestínunefndar. Meðal þátttakenda í þessum undirbúningshóp eru félagar í KSML sem fóru ásamt fleirum til Líbanon fyrr í sumar í boði PLO. Undirbúningshópurinn hefur í bígerð að kalla saman til fundar eða ráðstefnu um baráttu palestínuaraba þar sem stofnuð verði palestínunefnd.

Meðal efnis í blaðinu eru: Viðtal við yfirmann evrópudeildar PLO um sögu palestínuaraba á þessari öld, Grein um vopnuðu baráttuna, grein um Rauða Hálfmána Palestínu (Sams konar og Rauði Krossinn), viðtöl við palestínuaraba, saga PLO, grein um loftárásir ísraelsmanna á flóttamannabúðir palestínumanna o.fl. Leiðari blaðsins ber yfirskriftina: Stofnum íslenska Palestínunefnd. Þar segir m.a.:

"Heimurinn er í dag vitni að gífurlegum umbrotum og breytingum. Undanfarin ár hafa verið tímabil aukinnar og sívaxandi baráttu kúgaðrar alþýðu og undirokaðra þjóða um allan heim..." "Palestínska þjóðin hefur nú um hartnær 30 ára skeið barist fyrir tilveru sinni og réttindum gegn síonismanum. Hún hefur barist gegn því að vera gerð útlæg úr eigin landi, gegn því að vera svipt sjálfsákvörðunarrétti um eigin mál, gegn því að vera svipt öllum mannréttindum, og gegn því að menningu hennar sé stolið og hún gerð að menningu innrásaraðilans. Enginn málstaður er fegurri en málstaður palestínsku þjóðarinnar og engum málstað hefur verið ráðist jafnt gegn af vestrænu pressunni og fylgismönnum síonisma og heimsvaldastefnu.

Palestínumönnum hefur verið líkt við óargadýr er helgi líf sitt morðum og hryðjuverkum og fjölmiðlar á Vesturlöndum hafa haldið þeirri skoðun hátt á lofti, að sem slíkir skilji þeir ekkert annað en mál sverðsins. Reynt hefur verið að vinna hylli almennings við loftárásir og önnur hryðjuverk Ísraels gegn palestínsku þjóðinni með þessum áróðri. En fjölmiðlarnir hafa forðast eins og heitan eldinn að minnast á hvers vegna palestínska þjóðin varð að sæta hlutskipti flóttamanna eða lifa sem þrælar í eigin landi, sviptir öllum mannréttindum. Í augum þeirra sem styðja síonismann verður glæpur að dyggð og loftárásum á flóttmannabúðir er fagnað, árásarstríðum Ísraels gegn aröbum er líkt saman við krossferðirnar til forna og útþenslustefna síonismans réttlætt á allan hátt."

Síðan dregur greinin saman hvers vegna það er svo aðkallandi að stofna palestínunefnd á Íslandi, og gerir grein fyrir grundvelli slíkrar nefndar.

KSML styðja stofnun íslenskrar palestínunefndar af heilhug, og skora á alla and-heimsvaldasinna að leggja hönd á plóginn við uppbyggingu stuðningsstarfs fyrir málstað palestínuaraba á Íslandi.




Blaðið er hægt að kaupa m.a. í Bókabúðinni Rauðu Stjörnunni, Bókabúð Máls og Menningar, Bóksölu stúdenta, hjá sölumönnum Stéttabaráttunnar og sölumönnum Verkalýðsblaðsins. Þeir sem áhuga hafa á að fá nánari upplýsingar geta skrifað til:

Ástvaldur Ástvaldsson
Efstalandi 10
Reykjavík.

Þar er hægt að fá áskriftir að blöðum um málefni palestínuaraba á ensku, og allar upplýsingar.

-/ritstj.

# Hlutverk sósialheimsvaldastefnunnar i Kambódiu

Strax eftir sigur þjóðfrelsisaflanna í Kambódíu, lýstu endurskoðunarsinnarnir í Moskvu því yfir, að þeim bæru þakkir fyrir sigurinn. Þeirra stuðningur hefði verið afgerandi og væri það raunar í öllum þjóðfrelsisstríðum.

Þeir lýsa því yfir, að þeir hafi alla tíð litið á "þjóðfrelsisfylkinguna og konungstjórn þjóðfrelsisfylkingarinnar, sem löglegan stjórnanda Kambódíu."

Þetta má lesa í greinum, sem Novosti Press, áróðursvél þeirra dreifði, í apríl síðastliðnum.

En hvernig var málum háttað?

Eftir valdatöku Lon Nols 1970, viðurkenndu sovétheimsvaldasinnarnir stjórn hans. Stuttu síðar neituðu þeir Sihanouk prins um leyfi, til að setja upp útlagastjórn í Moskvu sem væri jafnrétthá þeirri í Peking. En 28. mars 1975, sendi Sovétstjórnin diplomatíska orðsendingu til stjórnar Sihanouks, þess efnis að frá og með þeim degi, liti Sovétstjórnin á hana sem einu löglegu stjórn Kambódíu. - Í lok mars voru meira að segja amerisku heimsvaldasinnarnir búnir að missa trúna á hinni spilltu stjórn Lon Nols.

Þetta var allur stuðningur Sovétríkjanna. Að styðja Lon Nol þar til hann var að falli kominn; söðla þá yfir, veita hinni sigrandi þjóðfrelsisfylkingu viðurkenningu, til að geta krafist áhrifa í landinu, í skjóli stuðnings, sem alls enginn var.

Sihanouk sagði í desember 1972, í viðtali við blaðamann The Guardian, um afstöðu Sovétríkjanna til baráttunnar í Kambódíu, að "ef þjóðfrelsisöflin sigruðu, væri stuðningur Kína mikilsverður þáttur. Þetta hafa endurskoðunarsinnarnir túlkað sem útvíkkun á áhrifasvæði Kína."

Hann sagði einnig, að þjóðfrelsisfylkingin hefði fengið mikilsverða, en algerlega skuldbindingar- og endurgjaldslausa aðstoð frá Kína, en ekki "eina einustu krónu" frá Sovétríkjunum.

Endurskoðunarsinnarnir eru undrandi vegna sigursins. Ekki er langt síðan þeir sögðu, að stjórn Sihanouks ríkti yfir engu og engin trygging væri fyrir því, að hún nokkru sinni gerði það. Þess vegna studdu þeir þá ekki.

Þeir meira að segja gerðu því í skóna, að"Sihanouk, Lon Nol, USA og Kína, væru að gera samkomulag, sem fæli í sér stöðvun byltingarinnar."

En núna segjast þeir hins vegar alltaf hafa stutt Sihanouk, og þjóðfrelsisfylkinguna.

Það er varla hægt að álasa þeim fyrir það. Þeim er mikið í mun að breiða yfir þessa miklu afhjúpun að hlutverki sínu í þjóðfélagsbaráttu 3. heimsins. Þjóðfrelsisfylkingarnar um allan heim hafa séð, að "stuðningur" sósíalheimsvaldasinnanna, er aðferð þeirra til að ná undir sín yfirráð, öðrum löndum.

Kambódía er einnig lifandi fordæmi þess, hvernig þjóðir geta sigrað allar tegundir heimsvaldastefnu, þegar alþýðan er sameinuð og tilbúin til fórna.

eb/byggt á Guardian.

**Rauður vettvangur** Frá lesendum **Rauður vettvangur** Frá lesendum **Rauður vettvangur**

# „KSML EIGA VAXANDI HLJÓMGRUNN"

Um nokkurt skeið hef ég verið áskrifandi að málgagni KSML, Stéttabaráttunni. Mig langar til að senda blaðinu stutta hugleiðingu mína um samtökin nú í dag og baráttuna fyrir sköpun nýs kommúnistaflokks. Það er skoðun mín að Stéttabaráttan taki stöðugum framförum, blaðið er vel skrifað, og félagar greinilega allflestir vel að sér í marx-lenínismanum, og útlit blaðsins sem skiptir ekki litlu máli er á alla staði til fyrirmyndar.

Stéttabaráttan er í dag eina raunverulega málgagn marx-lenínista á Íslandi. KSML áttu við barnasjúkdóma að stríða í upphafi og bar stefnan oft talsverðan keim af einangrunarpólitík en skoðun mín er sú að KSML hafa lært af mistökum og komi nú fram sem einu baráttusamtök marx-lenínista hér á landi. Það var mikil og góð hreinsun að losna við klíku Gústafs Adolfs úr samtökunum. Afhjúpun þeirrar klíku og brottrekstur úr samtökunum, á eftir að hafa góð áhrif á þróun samtakanna í framtíðinni.

En víkjum nú að öðru. Um nokkurra ára skeið var ég félagi í Fylkingunni, sat þar í stjórn í nokkur ár og tel mig hafa verið allvirkan félaga. Þetta var á þeim árum þegar Fylkingin lét mikið að sér kveða, stóð fyrir mótmælaaðgerðum gegn bandarískri heimsvaldastefnu og virkjaði margan góðan félaga til baráttu gegn auðvaldinu. Á þeim árum hafði Fylkingin mikla möguleika á því að verða verulegt afl marxista á Íslandi, ef rétt hefði verið haldið á málunum. Undantekningarlaust voru allflestir félagar í forustu Fylkingarinnar á þeim árum ágætir kommúnistar, og vel að sér í sögu hinnar alþjóðlegu kommúnísku hreyfingar.

En hvílík umskipti nú fimm til sex árum síðar. Neisti, málgagn Fylkingarinnar er orðið fræðilegt málgagn stigamennsku trotskismans, allflestir félagar Fylkingarinnar sýktir af hugmyndum hans, og hugmyndafræðingar Fylkingarinnar námsmenn frá Norðurlöndum og Vestur-Evrópu, lærisveinar Leon Trotskís. Og það verður að segjast eins og er, að Fylkingin er að einangrast, áhrif hennar eru engin úti á landsbyggðinni, þar sem áður var að finna allöflugar deildir. Hér í Reykjavík eru einkennin einnig ljós. Fylkingin er á undanhaldi, félagatala fer minnkandi, reykvískir sósíalistar og kommúnistar finna nályktina frá Laugavegi 53A.

Alþýðubandalagið er sósíaldemókratískur flokkur, sem opinberar eðli sitt æ betur. Þinglið þess er máttlaust baráttulið, og foringjarnir í verkalýðshreyfingunni úrkynja. En þróun Alþýðubandalagsins á sér langan aðdraganda, sem rekja má allt til daga Kommúnistaflokks Íslands, og flestum marx-lenínistum á að vera kunn.

En nú ætla ég að fara að stytta mál mitt, ætlunin var aðeins að skrifa Stéttabaráttunni nokkrar línur. Eins og sjá má af þessu bréfi er það skoðun mín að KSML séu nú í dag þau samtök íslenskra kommúnista sem eiga framtíðina fyrir sér. Og ég er ekki einn um þessa skoðun, margir félagar sem starfað hafa innan Fylkingarinnar og Alþýðubandalagsins eru að átta sig á þeirri staðreynd að KSML eiga vaxandi hljómgrunn meðal marx-lenínista á Íslandi.

Persónulega get ég ekki skrifað undir allt sem KSML hafa gert að baráttumálum sínum, t.d. finnst mér afstaða þeirra til utanríkisstefnu kínverska alþýðulýðveldisins ekki ávallt rétt og hef ýmislegt við hana að athuga og svo veit ég að er um fleiri. En það breytir ekki úrslitum um það að KSML fá aukinn styrk á næstu mánuðum og árum er það, að samtökin hafa tekið þá ákveðnu stefnu nú að vinna að því að byggja upp hér á Íslandi nýjan forustuflokk vinnandi alþýðu, nýjan marx-lenínískan flokk, nýjan Kommúnistaflokk.

-/Áskrifandi og stuðningsmaður.

# TVÖFELDNI ALÞÝÐUBANDALAGSINS

Nýlega birti Þjóðviljinn nokkrar greinar þar sem sýnt var fram á að Ísland væri s.k. láglaunaland. Blaðið birti nokkrar tölur sem voru byggðar á samanburði á launum hér og á öðrum Norðurlöndum. Gott og vel.

En veit ekki vinstri höndin hvað sú hægri gerir?

Á sama tíma eru verkalýðsforingjar Alþýðubandalagsins (Alþýðubandalagið hafði mikil ítök í 9-mannanefndinni) að semja um kaup og kjör verkalýðsins. Maður skyldi ætla að þeir tækju mið af því sem Þjóðviljinn upplýsir um láglaunalandið Ísland!

En því er ekki fyrir að fara. Þessir höfðingjar sitja og semja um skitin 11% (sem eru nú horfin aftur í vasa auðvaldsins) þegar það er sannað að verkamannslaun þurfa að hækka um ca 50% til að dekka brýnustu lífsnauðsynjar!

Allt tal Þjóðviljans um láglaunalandið sýna hversu langt frá hagsmunum verkalýðsins Alþýðubandalagið stendur. Flokkurinn segir eitt - en gerir allt annað!

Aðferðir verkalýðsforystunnar til að koma kjaraskerðingunni í gegn eru lærdómsrík dæmi um það hvoru megin víglínunnar hún stendur. Þeir sitja við samningaborðið mánuðum saman. Á sama tíma skellur yfir hver verðhækkunin á fætur annarri. Þegar svo loksins "gengur saman" með samninganefndunum, þá er verkafólk orðið svo illa statt að það samþykkir samningana og getur ekki annað. Enda væri það til lítils að leggja í orrustu með 9-mannanefndina sem herstjórn. Sú orrusta yrði aldrei skeinuhætt auðvaldinu.

Ég segi því: Köstum þessum mútuþægu verkalýðs"foringjum" út úr verkalýðsfélögunum!

-/ Fyrrverandi kjósandi
Alþýðubandalagsins.



# LYGAR MOGGANS





Ógnaröld í Kambódíu

Frásögn New York Times byggð á viðtölum við fjölda flóttamanna

Byltingarglundroði að baki bambustjaldsins

Milljónir við vinnu í frumskógum en varla sála á ferli í borgum og bæjum

Enn heldur Morgunblaðið áfram að fræða okkur um blóðbaðið í Kambódíu. 27. júlí s.l. var heil opna um "Ógnaröld í Kambódíu." Það virðist þó vera þannig með mig að Morgunblaðinu hafi ekki enn tekist að snúa mér til betri vegar, þrátt fyrir alla fyrirhöfnina sem blaðið hefur haft af fréttaflutningi sínum af blóðbaðinu í Kambódíu. Allavega verður mér ætíð fyrst hugsað til þess, hve Mogginn stóð sig illa í fréttaflutningnum þegar hið raunverulega blóðbað stóð yfir, þ.e. þegar bandaríski flugherinn myrti 600.000 kambódíumenn með loftárásum. Og þegar ég hugsa um það, þá dettur einhvern veginn botninn úr þessu hjá Morgunblaðinu í dag. Afstaða blaðsins er of augljós - það þegir yfir því þegar heimsvaldasvínin myrða hundruð þúsunda. En þegar ljúga skal um þjóðfrelsisöflin, þá er stríðsletrið notað; og alltaf nóg pláss.

Sveinn

# Baráttueining marxista-leninista á Norðurlandi

5. tbl. Nýja verkamannsins er að koma út. Menn munu eflaust reka augun strax í það, að þetta blað er gefið út af báðum íslensku marxísku-lenínísku samtökunum, EIK(m-l) og KSML, og verður svo framvegis.

Yfirlýsing undirrituð af Akureyrarsellu KSML og Akureyrardeild EIK (m-l) birtist í N.V. og fer lokakafli hennar hér á eftir:

"Þrátt fyrir þessa baráttueiningu um blaðaútgáfuna eru enn þá nokkur pólitísk atriði sem greina á milli EIK (m-l) og KSML, og vonum við því að með þessu samstarfi milli samtakanna komist verulegur skriður á viðræður og samstarf milli samtakanna, bæði hér á Akureyri og í Reykjavík, sem leiði til pólitískrar sameiningar. Allar slíkar viðræður og samstarf verður að fara fram í félagalegum anda.

Vonum við síðan að þessi eining KSML og EIK(m-l) um útgáfu Nýja verkamannsins verði til þess að styrkja blaðið og efla sem sameiginlegt málgagn kommúnista (marxista-lenínista) á Norðurlandi."

Fyrir utan þessa álitsgerð hefur verið gerður ellefu liða samstarfsgrundvöllur og er aðalinntakið það, að samstarfið fari fram á algerum jafnréttisgrundvelli. Í grundvellinum má m.a. finna þessi atriði:

Blaðið er málgagn kommúnista (marxista-lenínista) á Norðurlandi.

Stefnt skal að því að gera blaðið að virku málgagni vinnandi alþýðu á Norðurlandi.

Báðir aðilar eru sammála um að samstarfið sé skref í átt til sameiningar marxista-lenínista um byltingarsinnaðan verkalýðsflokk - Kommúnistaflokk Íslands.

Harðnandi stéttabarátta og dýpkandi kreppa krefst þess af marxistum-lenínistum að þeir sameinist og vinni sameiginlega að uppbyggingu kommúnistaflokks sem fær sé um að leiða baráttu vinnandi alþýðu.

Baráttueining marxista-lenínista á Akureyri á að vera lýsandi dæmi um hvernig starfi okkar á að haga svo kommúnistar geti beitt samtakamætti sínum í áróðri og útbreiðslu.

Gott samstarf hefur verið á milli EIK(m-l) og KSML á Akureyri, sérstaklega í verkalýðsmálum og hefur því í raun verið um að ræða nokkurs konar baráttueiningu samtakanna um nokkurt skeið, og þarf því engum að koma á óvart samstarfið um útgáfu Nýja verkamannsins.

Vonandi verður þetta samstarf hér á Akureyri þess valdandi að meiri skriður komist á umræður milli KSML og EIK(m-l), umræður sem fari fram í félagalegum anda og leiði að lokum til pólitískrar og skipulagslegrar sameiningar.

-/GM

## Nýi verkamaðurinn

Nýi Verkamaðurinn er málgagn kommúnista (marxista-lenínista) á Norðurlandi.

Nýi Verkamaðurinn er eina kommúníska blaðið sem gefið er út á Norðurlandi.

Lesið Nýja Verkamanninn, fylgist með atburðum á Norðurlandi.

Gerist áskrifendur í Rauðu Stjörnunni, Lindargötu 15, Reykjavík eða með því að skrifa til blaðsins í pósthólf 650, Akureyri.

Ársáskrift kostar aðeins 300 krónur.

Nýi Verkamaðurinn
pósthólf 650, Akureyri.

Framhald af forsíðu

# Rikisstjórnin svikur...

hann vinnur hjá. Þess er tryggilega gætt að hver einasta króna sem verkamaðurinn vinnur sér inn sé talin fram til skatts. En kapitalistunum eru allar leiðir færar til að stela undan skatti, enda er það opinbert leyndarmál, sem aðeins er rætt um við sérstök tækifæri, að ef tækist að ná inn öllum þeim tekjum og gróða af fyrirtækjum sem stolið er undan, þá væri hægt að afnema skattana á láglaunafólki. En ríkisvaldið er ríkisvald auðvaldsins og skattalögin og yfirleitt allt skattakerfið er því sniðið að hagsmunum auðherranna. Þeim er gefinn kostur á því að telja næstum því hvað sem þeim sýnist fram.

Þess þekkjast dæmi, og það ekki fá, að báta- og togaraeigendur skrái öll útgjöld fjölskyldunnar á kostnað útgerðarinnar. Það er í sumum tilfellum fleiri en ein fjölskylda sem þurfa nokkuð mikið til sín. Þetta, auk þess að falsa sölutölur og aðrar tekjur kemur svo þannig út, að það verður botnlaust tap á pappírunum. En í raunveruleikanum lítur þetta öðruvísi út. Þessir sömu menn, sem samkvæmt skattskránni hafa engar tekjur, lifa samt ótrúlega flott, búa í dýrum einbýlishúsum, aka um á rándýrum lúxuskerrum og ferðast til útlanda mörgum sinnum á hverju ári. En skattar eru til, vegna þess að kapitalisminn er til og 12% vörugjaldið er einmitt aðför borgaralegs ríkisvalds að verkafólkinu, sem borgar lang stærstan hluta af útgjöldum ríkis og sveitarfélaga.

**Auknar byrðar lagðar á herðar verkalýðsins.**

Nú í ágúst er það orðið ljóst að kauphækkunin frá því í júní er upp urin, þó að enn vanti þó nokkuð á að "rauða strikinu" svokallaða sé náð. Það kemur fram í útreikningum Hagstofu Íslands 1. ágúst s.l., að vístala framfærslukostnaðar hefur hækkað um 7,5 stig, en þá er reyndar búið að falsa hana um 8,6 stig vegna ráðstafana ríkisstjórnarinnar ("skattalækkanna" o.s.frv.), sem eru í rauninni einskis verðar fyrir verkafólk. Þannig er framfærsluvísitölunni haldið fyrir neðan "rauða strikið", það er 477 stig. Samkvæmt Hagstofu Íslands var f.vísitalan 1. ágúst 459 stig en hefði átt að vera 467 stig og hefði hækkað um 14 stig síðust 3 mánuði ef ekki hefði komið til fölsunar á henni. Allt til að koma í veg fyrir að umsamin launahækkun komi vegna verðbólgunnar eins og samið var um í júní síðastliðinn, en þar segir að allar hækkanir á f. vísitölu fram yfir 477 stig verði bættar 1. des. Þannig eru svokallaðar skattalækkanir og niðurgreiðslur notaðar til að halda kaupinu niðri á sama tíma og ríkisstjórnin hækkar heildsöluverð á stórum hluta innfluttra vara um 12%. Þessi aukaskattur er raunverulega enn meiri en 12% vegna þess að hann kemur til með að hækka heildsöluverðið en þá á eftir að leggja á smásöluprósenturnar. Þarna er því um verulegan aukaskatt að ræða sem ekki hefur enn komið fram í hækkuðu vöruverði nema að hálfu og á því enn eftir að valda töluverðum verðhækkunum umfram það sem fram kemur í útreikningum Hagstofu Íslands.

**ASÍ-forystan óvinur í herbúðum verkalýðsins.**

Það fer ekki milli mála að hin auknu afskipti ASÍ-forystunnar af kjarasamningum hafa orðið til að styrkja kjaraskerðingar ríkisstjórnarinnar. Þannig voru samningarnir í júní samspil ASÍ-forystunnar og ríkisstjórnarinnar til að koma í gegn dulbúinni kjaraskerðingu. Síðan þá hafa allar aðgerðir ríkisstjórnarinnar miðast við að gjörnýta alla þá möguleika sem samningarnir gáfu. Til dæmis þessi svokallaða skattalækkun, hún er nú notuð til að falsa verðhækkanir til að laun hækki ekki. Það sama er að segja um niðurgreiðslurnar sem aftur eru teknar inn með 12% vörugjaldinu en eru samt notaðar til að halda kaupinu niðri á sama hátt og skattarnir.

Allar þessar falsanir og hundakúnstir ríkisstjórnarinnar eru gerðar með samþykki ASÍ og í krafti síðustu kjarasaminga. Það verður því ekki annað sagt en að barátta gegn þessari uppkeyptu forystu verkalýðshreyfingarinnar sé ekki síður nauðsynleg en gegn stéttaróvininum sjálfum.

Þessi barátta verður aldrei ljósari en einmitt á tímum eins og núna, þegar verkalýðshreyfingin hefur sérlega mikla þörf fyrir sterka og baráttufúsa forystu. Eina leiðin til að eignast slíka forystu er að verkamenn í verkalýðsfélögunum taki sjálfir þátt í starfi verkalýðsfélaganna. Til að þetta sé mögulegt verður að hefja virka baráttu innan verkalýðsfélaganna fyrir auknu lýðræði og starf félaganna verði í auknum mæli byggt á virku starfi félaganna sjálfra, en hálaunaðri og gjörspilltri klíkunni verði ýtt til hliðar. Það er til dæmis ekki nóg að fá að samþykkja verkfallsboðun til að teljast taka þátt í starfi verkalýðsfélaganna. Verkamenn í félögunum verða að krefjast ráðstefnu sem allir félagsmenn fái tækifæri til að taka þátt í, og þar verði lögð línan fyrir væntanlega samninga. Bæði til að ákveða kröfurnar og undirbúa samningana og komandi átök. Slíkar kjaramálaráðstefnur fyrir kjaraátök yrðu til að auka lýðræðið til mikilla muna innan verkalýðsfélaganna og yrðu einnig til að veikja einræðisstöðu uppkeyptu forystunnar og styrkja verkalýðshreyfinguna til mikilla muna. Til þess að þessi barátta beri árangur verður sú andstaða sem nú fyrirfinnst innan verkalýðsfélaganna að sameinast og leiða þessa baráttu til að breyta verkalýðsfélögunum úr undirlægjum í raunveruleg baráttutæki. KSML hefur nú áætlað að freista þess að reyna að sameina einhvern hluta þeirrar andstöðu sem nú fyrirfinnst innan félaganna fyrir þau markmið að endurreisa félögin sem baráttutæki og freista þannig að koma í veg fyrir að ASÍ-forystan komi öðrum eins svikasamningum í gegn aftur. Við skorum því á alla heiðarlega verkalýðssinna að koma til liðs við okkur í baráttunni fyrir öflugum og virkum félögum.

-/GA

# Umræðurnar innan Vietnamnefndarinnar

Nú þegar vietnamska þjóðin hefur unnið sigur yfir bandarísku heimsvaldastefnunni og handbendum hennar í þjóðfrelsisbaráttu sinni, hafa eðlilega verið teknar upp umræður innan Vietnamnefndarinnar um hvert skuli vera framhald þess starfs, sem nefndin hefur unnið. Starfsemi nefndarinnar fram til þessa hefur í fyrsta lagi verið fólgin í stuðningi við þjóðfrelsisbaráttu vietnömsku þjóðarinnar og í öðru lagi baráttu gegn bandaríska hernum á Íslandi og NATO, ásamt stuðningi við frelsishreyfingar annars staðar í heiminum, þó það starf hafi aldrei verið öflugt líkt og Vietnam starfið. Af þessu getum við séð að nefndin hefur starfað á mun víðari grundvelli, en nafn hennar gefur til kynna. Þessa staðreynd verðum við að hafa í huga þegar við ræðum framtíð nefndarinnar. Það er okkar álit að mikilvægast sé fyrir þá, sem að nefndinni standa og ekki síður fyrir þá sem nefndin vinnur fyrir, að varðveita einingu hennar og hafa það ætíð í huga, að "sameinaðir stöndum vér, sundraðir föllum vér". Til þess að umræðurnar geti orðið sem gagnlegastar og markvissastar, teljum við nauðsynlegt að greina umræðuefnið í þrjá þætti og ætlum við að rekja hér á eftir hverjir þeir eru, og reyna í sem stystu máli að gera grein fyrir afstöðu okkar.

FRAMTÍÐ VIETNAMSTARFSINS.

Mikilvægasta atriðið, þegar við vinnum stuðningsstarf fyrir þjóðfrelsisöflin í heiminum, er að við gerum okkur ljósa grein fyrir hver afstaða viðkomandi aðila er til þess hvernig þetta starf verði best af hendi leyst og á hvern hátt það geti komið að sem mestu gagni fyrir viðkomandi þjóðir. Þetta hefur Vietnamnefndin alltaf gert og þetta verður hún eins að gera í dag þegar hún markar stefnu sína við breyttar aðstæður í Vietnam. Tillögur þær sem fulltrúi EIKm-l í nefndinni setti fram í bréfi til formanns nú nýverið eru í fullu samræmi við afstöðu vietnama til málsins og þess vegna styðjum við þessar tillögur og leyfum okkur að birta þær hér í megindráttum.

1. Tilgangur sambandsins er að efla öll vináttu-, stjórnmálaleg og menningarleg tengsl hinna íslensku og vietnömsku þjóða.
2. Aðild er einstaklingsbundin og öllum frjáls, sem þess óska, enda sýni þeir hvorki í orði né verki óvináttu gagnvart vietnömsku þjóðinni, menningu hennar eða þjóðfélagsháttum.
3. Sambandið starfar að samskiptum við bæði ríki Vietnam, þar til þau verða sameinuð, sem er lokatakmark beggja.
4. Sambandið telur ekki hlutverk sitt að hafa í frammi neina gagnrýni á þjóðskipulag og þróun vietnamska samfélagsins.
5. Fyrsta verk sambandsins er að berjast fyrir því, að íslenska ríkisstjórnin viðurkenni formlega og taki upp full stjórnmálasamskipti við BBS í Suður-Víetnam. Jafnframt mun sambandið styðja uppbyggingarstarfið í Vietnam að megni.

En hvað þá um starfsemi VN? Hver á að verða framtíð hennar?

Eins og áður sagði er það mjög áríðandi að fara í einu og öllu eftir leiðsögn viðkomandi þjóðfrelsisafla, þegar unnið er stuðningsstarf við þjóðfrelsisbaráttu kúguðu þjóðanna. Þessari leiðsögn verðum við að leita eftir og starfa samkvæmt til að árangur geti orðið af starfi okkar. Við verðum í þessum tilfellum að leita til þjóðfrelsisfylkinga viðkomandi landa sem eru þá fulltrúar yfirgnæfandi meirihluta þjóðarinnar. Það verður að skipuleggja starfið fyrir hinar ýmsu þjóðir eftir séraðstæðum hverrar þjóðar. Þess vegna eru allar hugmyndir um að hægt sé að stofna eina allsherjar fylkingu sem hafi það að



Alþýða Danang fagnar frelsun borgarinnar úr höndum Saigonhersins síðasliðið vor.

markmiði að berjast fyrir allt og alla alls ekki réttar. Það er í flestum tilfellum nauðsynlegt að stofna sérstaka nefnd til að annast stuðningsstarfið fyrir hinar einstöku þjóðir. Þetta hefur þó að engu leyti í för með sér, að ekki geti verið um að ræða samvinnu að vissu marki, milli hinna einstöku nefnda. En hið mikilvægasta er að varðveita sjálfstæði nefndanna vegna sérstöðu þeirra.

Þetta veitir starfinu meiri festu og kemur í veg fyrir að nokkur misskilningur geti komið upp um markmið og starfsaðferðir í viðkomandi baráttu. Einnig veitir þetta nefndinni sterkari stöðu út á við, bæði gagnvart íslensku þjóðinni og eins gagnvart frelsishreyfingunum.

En þrátt fyrir að stuðningurinn við baráttu kúguðu þjóðanna geti ekki verið unninn af breiðri andheimsvaldasinnaðri fylkingu, er alls ekki verið að segja, að slík fylking eigi ekki fullan rétt á sér. Þvert á móti er það aðkallandi verkefni nú þegar starf vietnamnefndarinnar er skoðað og framhald þess ákveðið, að taka afstöðu til stofnunar slíkrar fylkingar og skilgreina hver starfsemi hennar þarf að vera.

HLUTVERK ANDHEIMSVALDASINNAÐRAR FYLKINGAR.

Starfi andheimsvaldasinnaðrar fylkingar má á grófan hátt skipta í fjóra meginþætti. Í fyrsta lagi baráttu gegn veru Íslands í NATO og baráttu gegn

FRH. á bls. 4

# SÖNGBÓK VERKALÝÐSINS

Söngbók verkalýðsins

Söngbók verkalýðsins er nú komin út. Þar er að finna um 40 verkalýðssöngva, bæði gamla og nýja. Nótur og gítargrip eru sýnd með mörgum textanna. Verð bókarinnar er kr. 400 og fæst hún í bókabúðinni Rauðu Stjörnunni Lindargötu 15, Reykjavík. Hér til hliðar birtum við svo einn hinna nýju texta í bókinni, "Segið mogganum upp."

SEGÐU MOGGANUM UPP!

D
Eitt sinn var Hitler helsta goðið,
G A7 D
sem hampað var í Morgunblaðinu.
G A7 D
En gyðingunum sem í gasofna var troðið
G Em A7
var getið öllu minna í blaðinu.

Og mogginn dáðist líka að Frankó forðum
[illegible] falangistaböðli og kapellán.
En þó var aldrei miðlað mörgum orðum
um morðin sem þeir frömdu um allan Spán.

Kennedy og Nixon voru næstir
í náðinni og fengu moggans hrós.
En hvað þeir voru vissu víst fæstir
fyrr en Votergeit leiddi það í ljós.

Og Saigon-klíkan sigraði minnst þrisvar
á síðum moggans með yfirburðum og glans.
Öll þjóðin féll minnst fimmhundruðogtvisvar
ef fara á eftir útreikningum hans.

Og Thieu var helsti fánaberi frelsis
og friðar sem mogginn vissi til.
Því að losa mannsins sál úr líkamshelsi
hann lék á hverjum degi um árabil.

En þannig hefur það ævinlega orðið
um alla þá sem mogginn heldur vel.
Þeir verða uppvísir að meinsæri eða morði,
þótt mogginn reyni að þegja slíkt í hel.

Því að baki moggans blundar afturhaldið.
Hann býr til lognar fréttir handa þér.
Hrósar og lofar heimsauðvaldið,
en hallmælir því sem sannast er.

Nú segðu þessum mogga upp á morgun.
Þú missir ekki neitt ef svínið fer.
Vald sitt fær hann byggt á þinni borgun.
Þú borgar fyrir að lát'ann ljúga að þér.

-KG

# STUÐMENN

Fyrir skömmu birtust stuðmenn á markaðinum með braki og brestum. Mjög góður flutningur tónlistarinnar og afbragðs söngur fleytti þessari hljómsveit strax upp á vinsældalistann og kannske hefur leyndin og grímubúningur þeirra félaga gert sitt til að hjálpa upp á. Það virðist annars vera orðin tíska popphljómsveita, að dulnefna sig eða gefa út plötur undir tilbúnu nafni. Hljómar, sem fyrir löngu hafa spilað út, komust aftur í umferð svo um munaði, aðeins með því að kalla sig Lónlí blú bois og með því að nota íslenska texta við annars ágæt lög sín. Það sem veldur vinsældum þessara hljómsveita, sem skera sig ekki svo mjög úr öðrum grúppum hvað varðar tónlist og flutning, er fyrst og fremst umbúðalaus og oft hnyttinn texti við lögin. Angurværðin og Þrastarlundarrómantíkin sem svo lengi loddi við íslenska dægurlagatexta er horfin eins og dögg fyrir sólu og í staðinn er komin opinská og kannske dálítið bersögul lýsing á umsvifum æskunnar í nútíma þjóðfélagi. Draumadísin víkur fyrir "Stínu stuð", tunglskinsgangan eða sólsetursástin fyrir "svaka partí" eða "sveitaferð". Þessi breyting er ekkert íslenskt fyrirbrigði hún hefur viðgengist í lengri tíma erlendis, undir nafninu prógressíft popp. Og þar ytra hefur hún gengið mikið lengra. Erlendir popptónlistarmenn hafa í æ ríkari mæli farið að skilgreina samfélagslegan veruleika kapitalismans, firringu og umkomuleysi nútíma æsku, gróðabrallið og arðránið á verkalýðnum. Sömuleiðis hefur þjóðfrelsisbarátta alþýðunnar í þriðja heiminum orðið yrkisefni popptónlistarmanna. Þessi nýja stefna í músíkinni var fyrst kynnt með plötu Þokkabótar í fyrra, sem náði miklum vinsældum. En eins og ytra virðist prógressíft popp ætla að klofna í tvær meginstefnur - framfarasinnaða músík sem tekur afstöðu með frelsisbaráttu alþýðunnar, og dópboðskap. Hið síðarnefnda er áberandi í textum Stuðmanna. Hassið er "traust og hald í lífsins leik" og "guðinn Lýsergíð (LSD) er voldugastur allra guða." Þó að Stuðmenn skili góðri tónlist og fari yfirleitt vel með sönginn, er boðskapurinn í textum þeirra bæði afturhaldssamur og afvegaleiðandi. Kapitalisminn býður æskunni upp á drykkjusvall, eiturlyfjaneyslu og aumingjadóm í frístundum hennar og kallar allt saman "skemmtanir." Að fara út að skemmta sér, merkir að drekka sig fullan og eyða fé í sviknar blöndur




öldurshúsanna. Og þessi uppbyggjandi skemmtun, sem æskan dregst inn í, heldur henni óneitanlega frá framfarasinnaðri hugsun og starfi fyrir frelsun verkalýðsstéttarinnar. Allir hafa tíma til að byltast um í drykkjusölum vínveitingahúsanna og peninga til að kaupa brennivín fyrir þúsundir um hverja helgi. En fæstir álíta sig hafa tíma til að starfa fyrir sósíalismann eða lýðræðið, hvað þá að þeir eigi aura til að leggja fram til baráttunnar! Nei, Stuðmenn skjóta langt yfir markið með plötu sinni. Þeir eru óneitanlega "hressir" en það út af fyrir sig er ekki nóg. Þeir eru boðberar niðurlægingar íslenskrar æsku, talsmenn eiturlyfja og vesaldóms - svo lengi sem þeir halda sig við núverandi afstöðu. Sem sagt góð músík - ógeðslegur boðskapur!

ÚR PEKING REVIEW

# Um Angóla

Jafnhliða því að alþýða Angólu berst fyrir sjálfstæði sínu ýta sovésku endurskoðunarsinnarnir stöðugt undir innri deilur og vopnuð átök í landinu. Markmið þeirra er: að grafa undan sjálfstæði Angólu og ná tökum á þessu hernaðarlega mikilvæga landi.

Hugprúð alþýða Angólu hefur háð langvinna vopnaða baráttu fyrir þjóðlegu sjálfstæði. Með dyggum stuðningi annarra þjóða Afríku tókst henni að lokum að brjóta á bak aftur her portúgala og gera samning við portúgölsku ríkisstjórnina þar sem lýst var yfir sjálfstæði Angólu f.o.m. 11. nóvember og brottflutningi allra portúgalskra hersveita fyrir lok febrúar 1976. Þessi mikli sigur var árangur baráttueiningar angólskrar alþýðu.

Hinar 6 milljónir angólubúa munu aldrei líða rússum að stela ávexti þess sigurs sem þeir hafa unnið eftir áralanga baráttu.

Það eru engin grundvallarvandamál sem skilja á milli frelsishreyfinganna í Angólu. Fortíð þeirra er sameiginleg, nýlendustefnan og heimsvaldastefnan eru sameiginlegir óvinir þeirra og allar vilja þær leysa innri deilur með friðsamlegum umræðum.

Með stuðningi Samtaka Afríkuríkja höfðu frelsishreyfingarnar náð einingu og samstöðu. Þær undirrituðu samkomulag við portúgölsku stjórnina um sjálfstæði sameiginlega. Afríkuþjóðir fögnuðu þeirri einingu sem frelsishreyfingarnar höfðu náð og veittu þeim öllum fullan stuðning, jafnt MPLA, FNLA sem UNITA. Eining frelsishreyfinganna var eitur í beinum risaveldanna og þau hafa á allan hátt reynt að grafa undan henni.

Til að ná tökum á Angólu hafa sovésku heimsvaldasinnarnir reynt þá aðferð að sá klofningi og deilum á milli frelsishreyfinganna. Þeir tóku ekkert tillit til stefnu Samtaka Afríkuríkja, sem virtu frelsishreyfingarnar sem jafnrétthá aðila. Þvert á móti bjuggu þeir til klofning milli þeirra, gerðu sumar að byltingarsinnuðum samtökum en aðrar að gagnbyltingarsinnuðum o.s.frv. Þannig hlutuðust Sovétríkin til um innanríkismál Angólu og ýttu undir innri klofning.

Jafnvel eftir samkomulag frelsishreyfinganna og Portúgal skipuðu rússar á land í Angólu mörgum skipsförmum af þungavopnum. Þetta var beint tilræði við einingu alþýðunnar. Þessi glæpsamlega klofningsstarfsemi mun án efa opna augu angólskrar alþýðu á sviksamlegum áformum rússneska risaveldisins.

Það eru sovésku endurskoðunarsinnarnir sjálfir sem kynt hafa stríðseldana í Angólu. Til að dylja þetta reyna þeir að beita dæmigerðu bragði sínu: Þjófurinn kallaði "stöðvið þjófinn." Þeir hafa sett alla áróðursvél sína í gang til að ráðast gegn og rægja Kína og þjóðir Afríku. En staðfastur og ákveðinn stuðningur kínversku þjóðarinnar við viðleitni angólsku alþýðunnar til að berjast sameinuð fyrir . þjóðlegu sjálfstæði er öllum kunnur.

Hægt er að spyrja: Hvers virði eru þær dylgjur, sem sovét-endurskoðunarsinnarnir birta í árásargreinum sínum á Kína? Finna þeir nokkurn sem gleypir við þeim á heimsmarkaðinum? Almenningsálitið í nokkrum afrískum löndum hefur bent á, að það eru Sovétríkin sem hindra framgang sjálfstæðisbaráttunnar í Angólu. Æskulýðurinn í Angólu hefur lýst afstöðu sinni til "sovésku sósíalheimsvaldasinnanna, sem skipta sér af málum Angólu", þ.e. að "harmleiknum í Prag verði ekki svo fljótt gleymt" og að ekki sé hægt að gleyma því hvernig sovésku sósíalheimsvaldasinnarnir brugðust við sigri kambódísku alþýðunnar. Alþýða Angólu mótmælti fyrir skömmu harðlega, þegar sovésk skip affermdu brynvarða bíla og vopn í Luandahöfn, undir því yfirskini að hér væri um að ræða "heilbrigðisvörur." Þessi andstaða sýnir fram á, að enginn lítur við hinum sovésku fleðulátum. Hún er gott svar við spurningunni um, hvers virði dylgur sovésku enduskoðunarsinnanna eru.

Sovésku sósíalheimsvaldasinnarnir munu aldrei ná árangri í áformum sínum um að vinna skemmdarverk, sá klofningi og hlutast til um innanríkismál Angólu. Þeir munu aðeins lyfta steininum til að missa hann aftur á tær sér.

Angólsk alþýða hefur gengið í gegnum eldraun langvinnrar vopnaðrar baráttu. Hún mun sjá í gegnum áætlanir óvinarins, auka samheldnina í röðum sínum og halda áfram á leið baráttunnar gegn heimsvaldastefnu, nýlendustefnu og drottnunarstefnu risaveldanna og fyrir fullu þjóðlegu sjálfstæði.

Guðmundur J. Guðmund
Nóatúni 26
R.

Reitur til áskriftarmerkingar.

ÖREIGAR ALLRA LANDA SAMEINIZT!
LIFI MARXISMINN-LENINISMINN-HUGSUN MAÓS TSE TUNGS!
Stéttabaráttan

FÉLAGAR ÁSKRIFENDUR.

Nú hafið þið sem skuldið enn fyrir 1975 fengið í hendur sérstaka áskorun um að greiða sem fyrst áskriftina. Margir hafa brugðist vel við og greitt, en þeir eru fleiri sem hafa trassað að skjótast í næsta pósthús eða banka og stinga fénu inn á gíró blaðsins (nr. 27810) - hafið hraðann á. Framkvæmið þetta í dag, blaðið þar á fénu að halda! Tilkynnið bústaðaskipti.

Nú hefur STÉTTABARÁTTAN fengið póstgíróreikning, nr. 27810. Það auðveldar ykkur að greiða áskriftirnar- nú getið þið gengið bæði í banka og pósthús og greitt þar.

Áskriftargjöld eru sem hér segir:

| | |
|---|---|
| Venjuleg áskrift : | 600 kr. |
| Stuðningsáskrift : | 800 - |
| Baráttuáskrift : | 1000 - |

# Nú hefjum við lokasóknina að markinu




Sumarið hefur sagt til sín. Áskrifendafjölgunin hefur gengið hægar nú í sumar en í vetur og vor. En nú er sumarið svo til liðið og þá er kominn tími til að bretta upp ermarnar og taka til við að safna nýjum áskrifendum. Það er ekki mikill tími til stefnu, nú er aukningin orðin 57% og við höfum fjarlægst 100% línuna. En það má bjarga þessu, ef allir velunnarar taka á honum stóra sínum. Við skorum hér með á alla lesendur að taka fullan þátt í sókninni að 100% markinu, talið við vini og vinnufélaga, rekið áróður fyrir blaðinu og skorið á þá að gerast áskrifendur nú!

GERIST ÁSKRIFENDUR!